STUTTUR

# LEIÐARVÍSIR Í REIKNINGI

EPTIR

SJERA *S. B. SIVERTSEN.*

---

ÖNNUR ÚTGÁFA,

AUKIN OG LÖGUÐ.

---

REYKJAVÍK, 1854.

PRENTAÐUR Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS, Á KOSTNAÐ

E. JÓNSSONAR, HJÁ E. ÞÓRÐARSYNI.

# Formáli.

*Í þeim búningi, sem kver þetta kemur nú fram í, er það þannig til orðið, að jeg fjekk prentunarrjett þess hjá höfundi þess og útgefanda sjera S. B. Sivertsen. Síðan fjekk jeg hr. stúdent Jón Árnason til þess að breyta því, auka það og laga eptir því, sem nú þætti vel til fallið, og er hann því að mestu leyti höfundur kversins, í því sniði, sem það hefur nú. Bækur þær, sem studzt hefur verið við, við aukning og lögun kvers þessa, eru þessar hinar helztu:* Haldur R. Grüner: *Haandbog for Handlende og Söfarende. Kbh. 1850.* — Mag. G. Fr. Ursin: *Regnebog. Kbh. 1847.* — D. E. Rugaard: *Regnetabeller samt Nemheder, især ved Hoved-Regning. Kbh. 1844.*

*Vegna ýmsra anna gat hr. stúdent Jón Árnason eigi lokið kverinu af að öllu leyti; þannig hefur hr. yfirkennari, riddari B. Gunnlaugsson yfirfarið og aukið Rímtöfluna í 23. gr., hr. lögfræðingur Jón Guðmundsson samið Vaxtatöflurnar I.—II. í 21. gr., og athugasemdirnar við þær, hr. kand. M. Grímsson reiknað út töflurnar I.—IV. í 22. gr., og lesið prófarkirnar allar nema af 1. örkinni.*

*Um leið og jeg þannig hef gjört þá grein fyrir kverinu, sem mjer þótti hæfa, bið jeg alla þá, sem það vilja nota, að leiðrjetta hjá sjer prentvillur þær, sem fundizt hafa í því.*

Reykjavík 7. d. desemberm. 1854.

Útgefarinn.

## Helztu prentvillur:

2. bls. 5. l. a. o.: hurðruð, les: hundruð — 2. bls. 16. l. a. o.: hundrað, les: hundruð — 4. bls. 4. l. a. n.: = 5678, les: = 5676 — 6. bls. 14. l. a. n.: stafir, les: stafir — 12. bls. 8. l. a. o.: puntar, les: punktar — 16. bls. 3. l. a. n.: jarðabókasjóðinn, les: jarðabókarsjóðinn — 17. bls. 12. l. a. n.: 3 mörk, les: 2 mörk — 27. bls. 17. l. a. o.: belgiskt, les: belgiskur — 38. bls. 8. l. a. n.: ef, les: af — 56. bls. 12. l. a. o.: 2 kútar, les: 4 kútar — 66. bls. vantar í 7. dæmið samleggjandann: $11^5/_6$ — 70. bls. 1. l. a. n.: 20 tunnur, les: 10 tunnur — 71. bls. 4. l. a. o.: $4^{35}/_{40}$ pd., les: $4^{37}/_{40}$ pd. — 71. bls. í 4. dæmi: 137, les: 135 — 71. bls. 2. l. a. n.: $3^1/_3$ sk., les: $3^1/_5$ sk. — 77. bls. í 12. dæmi: $1^7/_{12}$ pela, les: $1^7/_{11}$ pela — 77. bls. í 16. dæmi $^{20}/_{33}$, les: $1^1/_{12}$ — 87. bls. á skiptitíund af 9 hundr. að vera $5^2/_5$ fisk. og af 14 hundr. $8^2/_5$ fisk. — 92. bls. 12 l. a. n.: lángan, les: langan — og sömu bls. 11. l. a. n.: vöxt-, les: vöxtum.

---

# Yfirlit efnisins.

# 1. Kapituli.

*Um tölulestur og 4 tegundir eins konar talna.*

---

## 1. gr.

### Tölulestur.

Hið fyrsta, sem útheimtist til reikningslistarinnar, er að þekkja tölurnar, og að geta lesið úr þeim. Nú eru almennt viðhafðar sífrutölur, og hafa þær að eins tíu myndir ólíkar og þessa þýðingu:

1 þýðir *einn,* eða eina einingu;
2 þýðir *tveir,* eða tvær einingar;
3 þýðir *þrír,* eða þrjár einingar;
4 þýðir *fjórir* eða fjórar einingar;
5 þýðir *fimm,* eða fimm einingar;
6 þýðir *sex,* eða sex einingar;
7 þýðir *sjö,* eða sjö einingar;
8 þýðir *átta* eða átta einingar;
9 þýðir *níu,* eða níu einingar.

0 (óið) þýðir *ekki neitt,* ef það stendur eitt sjer, eða í upphafi, en standi einhver þeirra tölustafa, sem nú voru nefndir, á undan því, þá fær hann merkingu eptir sæti sínu; því að í *fyrsta* sæti, næst hægri hendi, merkir hann eins margar einingar, og hann ávísar; í *öðru* sæti frá hægri hendi táknar hann eins opt 10, eða eins marga tugi, og í honum felast einingar; í *þriðja* sæti eins opt hundrað; í *fjórða* sæti eins opt þúsund; í *fimmta* sæti eins opt tíu þúsundir; í *sjötta* sæti eins opt hundrað þúsundir; og í *sjöunda* sæti eins opt þúsundir þúsunda, sem einnig

kallast milíón[1]. Óin eru til uppfyllingar, til að sýna auðu sætin, t. a. m.: 40 (fjörutíu) þýðir 4 tugi og enga einingu; væri ekki 0 sett aptan við 4, þá sæist ekki, að 4 sitja í öðru sæti. Eptir þessu verða þá 596 *fimm hundruð, níutíu* og *sex*; 7,280 *sjö þúsundir, tvö hurdruð* og *áttatíu*; 35,685 *þrjátíu* og *fimm þúsundir, sex hundruð, áttatíu* og *fimm*; 878,505 *átta hundruð, sjötíu* og *átta þúsundir, fimm hundruð* og *fimm*; 4,508,708 *fjórar milíónir, fimm hundruð* og *átta þúsundir, sjö hundruð* og *átta*. Vant er að skipta tölustöfunum í flokka með kommum, eins og hjer var gjört, og er það til ljettis, ef tölurunan er löng, og er þeim þá skipt þannig sundur frá hægri hendi til vinstri handar, að þrír tölustafir verði í hverjum flokki; verður þá síðasti flokkurinn vinstra megin ein-, tví-, eða þrístafaður. Þá er hver þrístafaður flokkur í rununni allri lesinn *hundrað, tugir* og *einingar;* í öðrum flokki frá hægri hendi eru þessar einingar reyndar *þúsundir*, í þriðja flokki *milíónir*, í fjórða flokki *þúsundir milíóna*, í fimmta flokki *þúsundir af þúsundum milíóna* eða *bilíónir*, í sjötta flokki *þúsundir bilíóna*, o. s. frv.

Það er einnig til ljettis í tölulestri, ef punktar eru settir ofanvert við töluna, og er hinn fyrsti punktur settur fyrir ofan 7. staf frá hægri hendi, eða einingastaf 3. flokks, tveir punktar yfir einingastaf fimmta flokks, þrír yfir einingastaf sjöunda flokks, o. s. frv.; er svo lesin milíón við 1 punkt, bilíón við 2 punkta, trilíón við 3 og þar fram eptir. T. a. m.: 12,856,876 eru *tólf milíónir*,

[1]) Sbr. minnisvísuna fornu: Sig mest merkir hinn fyrsti, mann tíu kvað annar, hundrað þýðir hinn þriðji, þúsund fjórði, vel grunda. tíu þúsund tel fimmta, tel hundrað þúsund sjötta, sjöunda mjer klerkar kenndu að kalla þúsund þúsunda.

*átta hundruð, fimmtíu* og *sex þúsundir, átta hundruð, sjötíu* og *sex*. 900,856,012 eru *níu hundruð milíóna, átta hundruð, fimmtíu* og *sex þúsundir* og *tólf*. 7,217,000,000 eru *7 þúsundir, 2 hundruð* og *17 milíónir*. 1,174,111,001,011 er *ein bilíón, eitt hundrað, sjötíu* og *fjórar þúsundir, eitt hundrað* og *ellefu milíónir, ein þúsund* og *ellefu*. 346,932,067,345,693,212,905 eru 346 *trilíónir*, 932 *þúsundir*, 67 *bilíónir*, 345 *þúsundir*, 693 *milíónir*, 212 *þúsundir*, 9 *hundruð* og 5.

## 2. gr.

### Samlagning.

Að *leggja saman* er að finna þá tölu, sem er eins stór og tvær eða fleiri aðrar tölur. Talan, sem fram kemur, þegar saman er lagt, heitir *summa* (safn), en tölurnar, sem saman eru lagðar, heita *samleggjendur*. Samlagningarmerkið er +, og þýðir *og*, þegar það stendur á milli talna, sem saman á að leggja, t. a. m.: 2 + 4 eru 6; það er sama sem 2 og 4 eru 6. Jafnaðarmerkið er =, og þýðir: *sama sem;* t. a. m.: 6 + 12 = 18, þ. e. 6 + 12 er sama sem 18.

Þegar leggja skal saman, er aðgætandi, að hver tala, sem saman á að leggja, skrifist út af fyrir sig í línu, hver niður undan annari, þannig að stafur standi rjett undir staf, eining undir einingu, tugur undir tug, o. s. frv., hversu margir stafir sem í tölunum kunna að vera, eða með öðrum orðum, að allar tölu raðirnar gangi jafnlangt aptur til hægri handar. Að því búnu skal draga þverstryk undir tölurnar; síðan er farið að leggja saman og byrjað fyrst á einingaröðinni. Verði þá úr þeim meira en 9 einingar, svo að skrifa þurfi tvo tölustafi, kemur einn eða fleiri tug-

ir, sem geymdir eru, til að bæta við tugaröðina; en einingarnar skrifast undir einingaröð samleggjenda fyrir neðan þverstrykið. Þá er farið að leggja tugina saman, og verði þeir ásamt hinum geymdu tugum frá einingaröðinni, fleiri en 9, svo rita þurfi tvo stafi, þá skrifast sá að eins undir tugaröð samleggjenda, sem hægra megin ætti að standa, ef báðir væru ritaðir, en hinn geymist og leggst við hundraðaröðina. Með sama hætti eru hinar töluraðirnar lagðar saman, hundruð saman og þúsundir saman. Síðast er sá tölustafur skrifaður fremst til vinstri handar, sem áður var vant að geyma og bæta við næstu tölurröð.

Dæmi:

1.
```
1234
 566
  21
   3
────
1824.
```

Hjer er sagt: 3 + 1 = 4, + 6 = 10, + 4 = 14; eru þá 4 (einingarnar) af 14 skrifaðir fyrir neðan þverstrykið, niður undan einingaröðinni, en 1 geymdur, sem er 1 tugur, til að bæta honum við tugaröðina. Þessi 1, sem geymdur var, og 2 eru 3, + 6 = 9, + 3 = 12; eru þá tveir skrifaðir undir strykið, því að það eru tugir, en 1 geymdur, sem er 1 hundrað; 1 geymdur + 5 = 6, + 2 = 8, það eru 8 hundruð; nú er enginn geymdur, svo að ekkert bætist við 1 þúsund, og færist hún því niður fyrir strykið, eins og hún er.

2. 1234 + 123 + 50 + 362 + 5671. = 7440.

3. 564 + 731 + 234 + 1230 + 3252. = 6011.

4. 170392 + 3546 + 39207 + 999837 + 1398 + 3654302. = 4868682.

5. 109 + 257 + 879 + 128 + 577 + 948 + 219 + 107 + 548 + 829 + 309 + 738 + 28. = 5678.

6. 69 + 576 + 920 + 10000 + 3876 + 515 + 23467 + 92907 + 3769 + 540327 + 37683. = 714109.

Athugas. það er vissara, þegar tölurnar eru margar, sem saman skal leggja, og þegar búið er að telja hverja töluröð saman upp eptir, að telja hana aptur saman ofan eptir, eða þá að skipta dæminu sundur í fleiri hluti, og leggja fyrst hvern hlut þess saman sjer í lagi, og síðan allar hinar einstöku summur á eptir, til að fá aðalsummuna.

## 3. gr.
## Frádragning.

Að *draga frá* er að finna mismun tveggja talna, sem manni eru fengnar. Þriðja talan, sem leitað er að, heitir *mismunur,* en hinar tölurnar heita *minnkandi* önnur, það er sú talan, sem minnka á, og er hún skrifuð fyrir ofan hina, er *frádragandi* er nefnd. Þessar tölur eru skrifaðar hver undir aðra, þannig að einingar, tugir o. s. frv. í báðum standist á. Síðan er byrjað að draga frádragandann frá minnkanda, og er byrjað á einingastöfunum. Ef báðir tölustafirnir eru jafnir, verður mismunur þeirra enginn, og er þá skrifað 0; sje stafurinn í minnkanda stærri en samsvarandi stafur í frádraganda, er auðvelt að finna mismuninn, og er hann skrifaður fyrir neðan þverstrykið, sem dregið er undir báðar tölurnar. En opt ber það við, að stafur í frádraganda er stærri, en samsvarandi stafur í minnkanda, og verður þá að taka 1 til láns hjá næsta staf á undan, eða vinstra megin í minnkanda, og er það athugandi, að hinn 1, sem tekinn er til láns, á ávallt að skoða sem tug, en ekki einingu, og svo hitt, að þegar síðan skal draga frá þeim staf, sem áður er af tekið, þá er hann minni um 1, og því setja menn lítið skástryk ofan til við þann staf, sem af var lánað, til minnis. Sje 0 stafur sá, sem einhver gildandi stafur á að dragast frá, er eins tekinn 1 til láns frá næsta staf á undan, úr þessum eina, sem lánaður var, og óinu verða

10, hvert sem það eru einingar, tugir eða hundruð. Nú þarf að lána, en 0 er næsti stafur á undan í minnkanda, og verður ekki hjá því lánað, skal þá lána 1 hjá næsta staf á undan 0, en við það verður óið, eða óin, sem í milli eru, að 9. Ef fleiri tölustafir eru í minnkanda, en samsvari í frádraganda, svo að minnkandi nái lengra fram, eru þeir fluttir ofan fyrir strykið. Frádragning má prófa, með því að leggja saman frádraganda og mismun, og kemur þá út minnkandi óbreyttur, ef að öllu er rjett farið. Frádragningarmerkið er ÷, og þýðir *að frádregnum,* t. a. m.: 14 ÷ 7 = 7; þ. e. þegar þetta merki stendur í millum talna, merkir það, að töluna, sem fyrir aptan það stendur, eigi að draga frá hinni, sem á undan því er.

7.
```
301497
 15199
------
286298.
```
Hjer er svo til orða tekið; 9 frá 17 (því 1 tugur er lánaður af 9) eru eptir 8, sem skrifast undir 9; 9 frá 18 (því 1 var áður lánaður hjá 9 í minnkanda, til að bæta við 7) eru eptir 9, sem færast niður; 1 frá 3 (því áður var búið að lána 1 hjá 4) eru eptir 2; 5 frá 11 (því að þar eru teknir tveir stafir saman 3 og 0 og lánaður 1 af) eru eptir 6; 1 frá 9 (0, sem maður ímyndar sjer, að sje orðið að 9) eru eptir 8; loksins færast 2 niður (af því að 1 var lánaður hjá 3).

8. 9200008 ÷ 3572953 = 5627055.

9. 790245937 ÷ 469381479 = 320864458.

10. 33479 ÷ 3103 ÷ 13683 ÷ 795 ÷ 348 = 15550.

11. 185438 ÷ 90872 ÷ 56431 ÷ 9104 ÷ 2861 ÷ 324 = 25846.

12. 84930643 ÷ 19 ÷ 523 ÷ 1496 ÷ 18071 ÷ 304612 ÷ 1484375 ÷ 53046134. = 30075413.

Athugas. Þegar marga frádraganda skal draga frá einum minnkanda (eins og í dæmunum 10, 11 og 12), þá má annaðhvort draga hinn fyrsta frádragandann frá minnkanda, og svo

hinn næsta frádraganda frá mismuninum, o. s. frv.; eða þá leggja alla frádragandana saman, og draga síðan summu þeirra frá minnkanda; því að allt kemur í sama stað niður, ef rjett er að farið.

### 4. gr.
### Margföldun.

Að *margfalda* er að finna, hversu stór einhver tala verður, þegar búið er að leggja hana svo opt saman við sjálfa sig, sem önnur tala (margfaldarinn) bendir á. Í margföldun eru manni fengnar 2 tölur, eins og í frádragningu, þær tölur heita *gjörendur;* sú talan, sem margfölduð er, heitir *margfaldandi,* en hin, sem margfaldað er með, heitir *margfaldari,* og er hann ritaður undir margfaldanda, þegar margfaldað er. Margföldun er eigi annað, en opt ítrekuð samlagning sömu tölu við sjálfa sig, því að það kemur fyrir sama, hvort sagt er 5 sinnum 5 eru 25, eða 5 eru skrifaðir 5 sinnum eptir samlagningarreglum, og svo lagðir saman. Tala sú, sem út kemur í margfölduninni, heitir *pródúkt* (úrurð). Margföldunarmerkið er annaðhvort $\times$ eða punktur (.). Þegar annaðhvort þessara merkja er sett í millum talna þeirra, er margfalda skal saman, þýða þau „sinnum“ eða „margfaldað með“. Margföldunartöflurnar þurfa menn að læra og kunna, einkum hina minni, og því eru þær hjer settar.

## Litla taflan.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 2 | sinnum | 2 | eru | 4 |
| 2 | — — | 3 | — | 6 |
| 2 | — — | 4 | — | 8 |
| 2 | — — | 5 | — | 10 |
| 2 | — — | 6 | — | 12 |
| 2 | — — | 7 | — | 14 |
| 2 | — — | 8 | — | 16 |
| 2 | — — | 9 | — | 18 |
| 2 | — — | 10 | — | 20 |
| 3 | sinnum | 3 | eru | 9 |
| 3 | — — | 4 | — | 12 |
| 3 | — — | 5 | — | 15 |
| 3 | — — | 6 | — | 18 |
| 3 | — — | 7 | — | 21 |
| 3 | — — | 8 | — | 24 |
| 3 | — — | 9 | — | 27 |
| 3 | — — | 10 | — | 30 |
| 4 | sinnum | 4 | eru | 16 |
| 4 | — — | 5 | — | 20 |
| 4 | — — | 6 | — | 24 |
| 4 | — — | 7 | — | 28 |
| 4 | — — | 8 | — | 32 |
| 4 | — — | 9 | — | 36 |
| 4 | — — | 10 | — | 40 |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 5 | sinnum | 5 | eru | 25 |
| 5 | — — | 6 | — | 30 |
| 5 | — — | 7 | — | 35 |
| 5 | — — | 8 | — | 40 |
| 5 | — — | 9 | — | 45 |
| 5 | — — | 10 | — | 50 |
| 6 | sinnum | 6 | eru | 36 |
| 6 | — — | 7 | — | 42 |
| 6 | — — | 8 | — | 48 |
| 6 | — — | 9 | — | 54 |
| 6 | — — | 10 | — | 60 |
| 7 | sinnum | 7 | eru | 49 |
| 7 | — — | 8 | — | 56 |
| 7 | — — | 9 | — | 63 |
| 7 | — — | 10 | — | 70 |
| 8 | sinnum | 8 | eru | 64 |
| 8 | — — | 9 | — | 72 |
| 8 | — — | 10 | — | 80 |
| 9 | sinnum | 9 | eru | 81 |
| 9 | — — | 10 | — | 90 |
| 10 | — — | 10 | — | 100 |

## Stóra taflan.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 2 | sinnum | 12 | eru | 24 |
| 3 | — — | 12 | — | 36 |
| 4 | — — | 12 | — | 48 |
| 5 | — — | 12 | — | 60 |
| 6 | — — | 12 | — | 72 |
| 7 | — — | 12 | — | 84 |
| 8 | — — | 12 | — | 96 |
| 9 | — — | 12 | — | 108 |
| 10 | — — | 12 | — | 120 |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 2 | sinnum | 13 | eru | 26 |
| 3 | — — | 13 | — | 39 |
| 4 | — — | 13 | — | 52 |
| 5 | — — | 13 | — | 65 |
| 6 | — — | 13 | — | 78 |
| 7 | — — | 13 | — | 91 |
| 8 | — — | 13 | — | 104 |
| 9 | — — | 13 | — | 117 |
| 10 | — — | 13 | — | 130 |

| | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 2 | sinnum | 14 | eru | 28 | 2 | sinnum | 17 | eru | 34 |
| 3 | —— | 14 | — | 42 | 3 | —— | 17 | — | 51 |
| 4 | —— | 14 | — | 56 | 4 | —— | 17 | — | 68 |
| 5 | —— | 14 | — | 70 | 5 | —— | 17 | — | 85 |
| 6 | —— | 14 | — | 84 | 6 | —— | 17 | — | 102 |
| 7 | —— | 14 | — | 98 | 7 | —— | 17 | — | 119 |
| 8 | —— | 14 | — | 112 | 8 | —— | 17 | — | 136 |
| 9 | —— | 14 | — | 126 | 9 | —— | 17 | — | 153 |
| 10 | —— | 14 | — | 140 | 10 | —— | 17 | — | 170 |
| 2 | sinnum | 15 | eru | 30 | 2 | sinnum | 18 | eru | 36 |
| 3 | —— | 15 | — | 45 | 3 | —— | 18 | — | 54 |
| 4 | —— | 15 | — | 60 | 4 | —— | 18 | — | 72 |
| 5 | —— | 15 | — | 75 | 5 | —— | 18 | — | 90 |
| 6 | —— | 15 | — | 90 | 6 | —— | 18 | — | 108 |
| 7 | —— | 15 | — | 105 | 7 | —— | 18 | — | 126 |
| 8 | —— | 15 | — | 120 | 8 | —— | 18 | — | 144 |
| 9 | —— | 15 | — | 135 | 9 | —— | 18 | — | 162 |
| 10 | —— | 15 | — | 150 | 10 | —— | 18 | — | 180 |
| 2 | sinnum | 16 | eru | 32 | 2 | sinnum | 19 | eru | 38 |
| 3 | —— | 16 | — | 48 | 3 | —— | 19 | — | 57 |
| 4 | —— | 16 | — | 64 | 4 | —— | 19 | — | 76 |
| 5 | —— | 16 | — | 80 | 5 | —— | 19 | — | 95 |
| 6 | —— | 16 | — | 96 | 6 | —— | 19 | — | 114 |
| 7 | —— | 16 | — | 112 | 7 | —— | 19 | — | 133 |
| 8 | —— | 16 | — | 128 | 8 | —— | 19 | — | 152 |
| 9 | —— | 16 | — | 144 | 9 | —— | 19 | — | 171 |
| 10 | —— | 16 | — | 160 | 10 | —— | 19 | — | 190 |

Ef ekki er nema 1 tölustafur, sem margfalda skal með, er hann skrifaður undir einingastaf margfaldanda, því að á honum er fyrst byrjað að margfalda, og svo

haldið á fram fram eptir til vinstri handar. Er þá ekki annað á sig að setja, en að skrifa stafina rjett neðan undir, svo að eining verði undir einingu og tugur undir tug, o. s. frv. Verði pródúkt tveggja stafa meira en 9, þegar þeir eru margfaldaðir saman, svo að skrifa þurfi tvo tölustafi, rita menn að eins einingarnar af þeim, en geyma tugina og leggja við pródúkt næstu stafa, er þá á að fara að margfalda saman. Pródúkt síðasta stafsins er ávallt ritað með fullum tölustöfum.

13. 59873
4
———
239492

Hjer er svo að orði komizt: $4 \times 3 = 12$, er þá aptari stafurinn, 2, ritaður, en 1 geymdur; $4 \times 7 = 28$, $+ 1$ (hinn geymdi) $= 29$, eru þá 9 skrifaðir, en 2 geymdir; $4 \times 8 = 32$, $+ 2$ (hinir geymdu) $= 34$, eru 4 skrifaðir, en 3 geymdir; $4 \times 9 = 36$, $+ 3$ (hinir geymdu) $= 39$, eru 9 skrifaðir, en 3 geymdir; $4 \times 5 = 20$, $+ 3$ (hinir geymdu) $= 23$, og eru þeir ritaðir undir strykið fullum stöfum.

Þar sem 0 er í margfaldara, skal yfir það hlaupa, þannig að 0 skrifist þar niður undan í pródúktinu; eins ef 0 er í margfaldanda, kemur að eins 0 fram í pródúktinu, nema nokkuð sje geymt, er þá skrifast í staðinn fyrir 0. Sjeu 0, eitt eða fleiri, í endanum á margfaldara eða margfaldanda, þarf ekki annað við þau að gjöra, en að setja jafnmörg 0 fyrir aptan pródúkt hinna gildandi stafa.

14. 500
40
———
20000.

Sama er aðferðin, þegar marfgalda á með fleiri tölustöfum, hvað hvern tölustaf út af fyrir sig snertir; einungis er aðgætandi, að pródúktið af hverjum tölustaf í margfaldara skrifist í línu fyrir sig, og er byrjað á fyrsta staf til hægri handar, þ. e. einingastaf margfaldara.

Með honum margfaldast allur margfaldandi, því næst með tugastaf margfaldara, þá með hundraða staf, o. s. frv. Sætum stafanna í próduktinu ræður stafur sá, sem margfaldað er með; sje hann einingastafur, er fyrsti stafur próduktsins settur í einingasæti, sje hann tugastafur, þá í tugasæti. Gengur svo talan fram undan, að við hvern staf er allajafna byrjað að skrifa undir einu sæti framar. 1 margfaldar ekkert, þó má ekki hleypa þeim staf undan, heldur skal skrifa margfaldanda í þeirri línu óbreyttan í próduktið. Viðvaningar geta, ef vill, dregið stryk yfir hvern þann staf sjer til minnis, sem búið er að margfalda með. Þegar búið er að margfalda með öllum stöfum í margfaldara, skal draga stryk undir allt próduktið, og leggja saman allar línur þess, eptir samlagningarreglum.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 15. | 60254 | 16. | 1234 | 17. | 345678 |
| | 23 | | 205 | | 120 |
| | 180762 | | 6170 | | 6913560 |
| | 120508 | | 24680 | | 345678 |
| | 1385842. | | 252970. | | 41481360. |

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 18. | 38743 | × | 709 | er | 27468787. |
| 19. | 894621 | × | 813 | er | 727326873. |
| 20. | 5104626 | × | 1725 | er | 8805479850. |
| 21. | 1903761 | × | 38708 | er | 73690780788. |
| 22. | 23479005 | × | 1100069 | er | 25828525551345. |

## 5. gr.
## Deiling.

Að *deila* er að vita, hversu opt einhver tala, sem manni er fengin, felist í annari, sem manni er einnig fengin, eða hversu opt hún verði frá henni dregin. Tala

sú, sem deilast á, eða sem eitthvað skal draga frá, heitir *deilandi*, en hin talan, sem frá deilanda á að draga, nefnist *deilir*, af því að hún deilir eða skiptir deilanda í hluti. Deiling geta menn því og sagt að sje fólgin í því, að skipta deilanda í eins marga hluti, og deilir ávísar. Talan, sem fram kemur, heitir *kvóti* og sýnir, hversu opt deilirinn felist í deilanda. Deilingarmerkið er tveir puntar (:); þegar það er sett í milli tveggja talna, táknar það, að tölu þeirri, er stendur fyrir framan merkið, skuli deila með þeirri, er stendur fyrir aptan það, t. a. m.: 15 : 5, það er sama og sagt væri 5 í 15, eða 15 deildir með 5.

Í deili er ýmist einn tölustafur eða fleiri; og er vant að skrifa hann út af fyrir sig í hálfhring,), fyrir framan deilanda. Ef ekki er nema 1 stafur í deili, er kvótinn skrifaður undir deilanda, en dregið stryk í millum; aptur á móti ef fleiri stafir eru í deili, er reiknað ofan undan deilanda, en þá er kvótinn skrifaður í öðrum frásnúnum hálfhring,(, fyrir aptan deilanda.

Ef ekki er nema 1 tölustafur í deili, þá er aðgætt, hversu opt deili má hafa í fremsta staf deilanda, vinstra megin; en sje hann minni en deilirinn, þá er þess gætt, hversu opt deilir verði hafður í tveimur fyrstu stöfum deilanda, og má þá setja lítinn punkt neðan og aptan til við síðari tölustafinn, til að sýna, hvað mikið maður taki fyrir sig af deilandanum í einu, og kallast það *sjerdeilandi*. Kvótann og deilirinn margfalda menn svo saman, og draga pródúktið frá sjerdeilanda; afgangurinn sezt fyrir ofan síðari stafinn í sjerdeilanda, eða maður ímyndar sjer, að hann sje settur framan við næstkomandi staf deilanda, sem ásamt afganginum verður næsti sjerdeilandi; þannig er haldið á fram, unz deilandi þrýtur:

```
       21
23. 7) 5894
    -------
       842.
     eða
    7) 5894
    -------
       842.
```

Hjer er sagt: 7 í 58 = 8, 8 × 7 (deilir × kvóta) = 56; 58 ÷ 56 (sjerdeilandi ÷ próduktinu) = 2, sem annaðhvort eru skrifaðir upp yfir síðara staf sjerdeilanda, eða ímyndast framan við næstu 9, svo að næsti sjerdeilandi verður 29; 7 í 29 = 4; 4 × 7 = 28; 29 ÷ 28 = 1, sem annaðhvort sezt yfir 9, eða ímyndast framan við 4; verður því næsti sjerdeilandi 14; 7 í 14 = 2, skrifast þá 2 í kvóta; 2 × 7 = 14, 14 ÷ 14 = 0.

Sjeu fleiri en 1 stafur í deili, þá eru markaðir framan af deilanda eins margir tölustafir og eru í deili; sje svo, að þessir stafir í deilanda sjeu minni, en þeir sem í deili eru, þá afmarkast einum staf fleira af deilanda, en eru í deili. Þessir afmörkuðu stafir verða þá hinn fyrsti sjerdeilandi. Kvótastafurinn skrifast í hálfhringinn fyrir aptan deilanda, eins og áður er sagt, en pródúkt deilis og kvótastafsins ritast nú undir sjerdeilanda, og dregst frá honum eptir frádragningarreglum. Aptan við mismuninn skrifast næstkomandi stafur deilanda, sem flyzt ofan, og verður af honum og mismuninum nýr sjerdeilandi.

```
24. 3491) 80293 (23        25. 638) 1595,0 (25
          6982 .                    1276 .
          -----                     ------
          10473                      3190
          10473                      3190
          -----                      ----
          00000                      0000
```

Sje 0 bæði í endanum á deili og deilanda, þá má afmarka jafnmörg 0 aptan af hvorum fyrir sig, til að stytta fyrir sjer, en síðan er haldið á fram með deilinguna. Allt eins, ef deilir hefur eitt eða fleiri 0 í endanum, má marka þau fyrst um sinn aptan af, og jafnmarga tölustafi aptan af deilanda, en þá verður þó að lokunum að skrifa þá aptan við afganginn, ef hann verður nokkur,

í brotslíki, er sezt aptan við kvótann þannig, að menn rita afganginn af deilanda og hina afmörkuðu stafi fyrir ofan lítið þverstryk, en deilirinn allan undir þverstrykið. En ef afgangur verður enginn af deilanda, skal að eins skrifa stafi þá, hvort þeir eru 1 eða fleiri, sem af deilanda eru markaðir, fyrir ofan þverstrykið aptan við kvótann, en deilirinn undir eins og áður.

26. 12|00) 480|00 (40.
    48 .
    ——
     0

27. 24|00) 537|62 ($22\frac{962}{2400}$
    48 .
    ——
    57
    48
    ——
     9 (afgangur)

28. 36|0) 828|3 ($23\frac{3}{360}$
    72.
    ——
    108
    108.

Ef að því kemur í deilingu, sem stundum má verða, að deilir gangi fyr upp í einhverjum sjerdeilanda, en dæminu er lokið, eða ef afgangurinn verður svo lítill, að sjerdeilanda verði ekki deilt, þó búið sje að flytja ofan og setja fyrir aptan hann næsta tölustaf deilanda, þá er sett 0 í kvótann, og næsti tölustafur deilanda fluttur ofan, og bætt enn aptan við afganginn. Ef sjerdeilandinn er þá enn of lítill, er eins aðfarið og áður, sett 0 í kvótann og næsti stafur fluttur ofan. Þetta gengur, þangað til sjerdeilandinn er orðinn nógu stór til að deila honum.

29. 45) 90135 (2003
    90 . . .
    ——
    . . 135
    135
    ——
    000

30. 615) 431115 (701
    4305 . .
    ——
    . . . 615
    615
    ——
    000

31. 99548424 : 723 er 137688.

32. 1164924516 : 1974 er 590134.
33. 7611249281 : 793417 er 9593.
34. 8775717849152 : 89061032 er 98536.

Margföldun og deiling eru gagnstæðar reikningstegundir, og má prófa hvora þeirra með annari. Margföldun má, t. a. m., prófa þannig, að deila pródúktinu með margfaldanda, og verður þá kvótinn jafnstór og margfaldari. Eins má deila pródúktinu með margfaldara, og kemur þá út margfaldandi í kvótann. En deilingu má prófa, með því að margfalda kvótann með deili, og verður þá pródúktið jafnstórt deilanda, ef rjett hefur verið að farið.

---

## 2. Kapituli.

*Um margs konar tölur.*

---

### 6. gr.

Tegundir margs konar talna.

Af því að mjög ríður á að þekkja þýðingu hverrar tegundar, sem fyrir kemur í margs konar tölum, og hversu opt hver tegund felist í annari hærri, þá skal skýra nokkuð frá *peningum, vigt, máli* og *talinni vöru* í Danmörku og nokkrum öðrum löndum.

### I. *Peningar.*

*A,* Danmörk.

1. Brjefpeningar og smáir eirpeningar, (Sedler og Tegn).
   1 rbd (ríkisbankadalur) er 6 ℔ (mörk).
   1 ℔ er 16 β (skildingar).

(Brjefpeningarnir[1] hljóða upp á 1, 5, 50 og 100 rdl., og eirpeningarnir upp á $^1/_2$, 1 og 2 β. Brjefpeningar og eirpeningar, er ekki hafa gildi í sjálfum sjer, eru kallaðir á dönsku *Repraesentativer).*

2. *Silfurpeningar*

(gjaldgengir samkvæmt tilsk., dags. 31. d. júlímán. 1818, og18. d. desemberm. 1841) ganga

*a)* í stórgjöldum.

1 sp. (spesía) er 2 rdl.

$^2/_3$ sp. er 1 rdl. 2 #.

1 ríkisbankadalur er 1 rdl.

$^1/_3$ sp. er 4 #.

1 „ríkisort“ (24 β) er 2 #. 6 β.

(5 ríkisort eru 1 spesía).

$^1/_6$ sp., eða 10 *Schilling Schlesw. Holst. Courant* (kúrant), er 2 #.

32 ríkisbankaskildingar eru 2 #, eða 10 *Schill Cour.*

15 skildingar í dönskum kúranti (er stendur á XVI *Skill. Danske)* eru 1 # 8 β.

*b)* í smágjöldum fyrir innan 3 rdl.

$^1/_6$ *Rigsdaler* er 1 mark.

16 *Reichsbankschilling* er 1 #.

10 skildingar í dönskum kúranti (er stendur á XII *Skilling Danske*) eru 1 #.

$^1/_{12}$ sp., eða 5 *Sch. Schlesw. Holst. Cour.*, er 1 #.

16 ríkisbankaskildingar, 5 *Schill. Cour.*, er 1 #.

8 skildingar í dönskum kúranti (er stendur á: VIII Skill. Danske) eru 12 β.

$^1/_{24}$ sp., eða $2^1/_2$ *Schill. Schlsew. Holst. Cour.* eru 8β.

---

[1]) Seðlar þjóðbankans eru gjaldgengir í jarðabókasjóðinn til lúkuingar opinberra skyldugjalda á Íslandi samkvæmt brjefi innanríkisráðherrans til stiptamtmannsins, dags. 28. septemberm. 1850.

c, Smáskildingar.

8 *Reichsbankschilling* eru 8 β.

4 ríkisbankaskildingar, eða $1^1/_4$ *Schill.*, 3, 2, og 1 skildingur gilda, eins og á þeim stendur.

Athugas. Samkvæmt tilskip., dags. 5. d. janúarm. 1813, og 18. d. desemberm. 1841, eiga að vera $^{14}/_{16}$ af skíru silfri í spesíu, og heitir það 14 lödig[1], en $^{2}/_{16}$ hlutir eru eir. Eins eru $^{2}/_{3}$ sp., $^{1}/_{2}$ sp. og $^{1}/_{3}$ sp. 14 lödige, 2 marka peningur 11 lödig, 1 markspeningur 8 lödig, 8 sk. peningur 6 lödig, 4 sk. peningur 4 lödig og 3 sk. peningur 3 $^{2}/_{3}$ lödig.

*d)* Gamlir silfurpeningar.

Krónur hafa ýmislegt gildi eptir silfurgæðum, frá 1 rdl. 4 β til 1 rdl. 1 ℔ (þær síðari eru mjög sjaldgæfar). Til skuldalúkninga í jarðabókarsjóðinn gengur króna 1 rdl. $12^4/_5$ β, svo að 15 krónur samgilda 17 rdl. Hálfar krónur, eða gamall „túmarkspeningur", ganga 3 ℔ 6 β. *Justus index*, sem áður var 2 ℔, er nú lækkaður í verði og gengur að eins 28 β.

3. *Gullpeningar.*

1 *Species-Ducat* (ekki eldri en 1671) gengur 4 rdl. 1 ℔ $8^4/_5$ β[2].

1 *Courant-Ducat* (ekki eldri en 1757) gengur 3 rdl. 3 ℔ $6^3/_{10}$ β[3].

---

[1]) Sbr. II. A, 3.

[2]) Eptir brjefi ríkisfjárnefndarinnar, dags. 30. d. októberm. 1846, er Species-Ducat, ef hann er fullþungur, gjaldgengur í jarðabókarsjóðinn fyrir 4 rdl. 1 mrk.

[3]) Samkvæmt sama brjefi ríkisfjárnefndarinnar gildir Courant-Ducat í skuldalúkningum til jarðabókarsjóðsins 3 rdl. 1 mrk. 4 sk., en þeir, sem mótaðir voru árin 1714 til 1717, eru felldir í verði, svo að þeir eru ekki meir en 2 rdl. 5 mrk. 10 sk. virði. Auk þessara dúkata, sem nú eru taldir, ganga bæði danskir og hollenzkir dúkatar í Danmörk, hinir fyrri fyrir 3 rdl. 1 mrk 8 sk., og hinir síðari fyrir 4 rdl. 1 mrk. 4 sk.

1 *Christiansd'or* einfaldur (ekki eldri en 1775) gengur 7 rdl. 3 mrk. $1\frac{1}{2}$ sk.

1 *Christiansd'or* tvöfaldur gengur að jöfnu hlutfalli við einfaldan[1]

1 *Frederiksd'or* einfaldur er (samkvæmt tilskip. dags. 3. febrúarm. 1827) 7 rdl. 2 mrk. $6\frac{4}{5}$ sk.

1 *Frederiksd'or* tvöfaldur gildir 14 rdl. 4 mrk. $15\frac{2}{5}$ sk.[2].

Athugas. Í Species-Ducat er 23 Karat 6 Gran af skíru gulli (sbr. II. A, 4.); í Cour. Ducat 21 Karat 1 Gran; í Christiansd'or eða Frederiksd'or 21 Karat 6 Gran.

4. *Peningastærðir,* sem ekki eru slegnar, en einungis hafðar í reikningi.

1 sk. er 12 ⅄ (peningar), 1 sk. er og 3 hvítingar, 1 gulltunna er 100000 rdl. 1 milíón ríkisdala er 10 gulltunnur.

5. *Landaurar*[3] (á Íslandi).

1 ℂ (hundrað) er 120 álnir[4]. 1 ℂ er 6 vættir.
1 alin er 2 fiskar.
1 eyrir er 6 álnir.
1 ℂ er 20 aurar.
1 vætt er 20 álnir.
1 fjórðungur á landsvísu er 5 fiskar.
1 vætt er 8 fjórðungar.
1 ℂ er 24 fjórðungar.

---

[1]) Samkvæmt fyr nefndu brjefi ríkisfjárnefndarinnar er einfaldur Christiansd'or gjaldgengur í jarðabókarsjóðinn fyrir 7 rdl. 2 mrk., en tvöfaldur fyrir 14 rdl. 4 mrk.

[2]) Einfaldir og tvöfaldir Frederiksd'orar ganga í gjöldum til jarðabókarsjóðsins, eins og Christiansd'orar einfaldir og tvöfaldir, samkvæmt sama brjefi.

[3]) Verðlagsskráin, sem amtmennirnir láta prenta á hverju ári, sýnir verðið á öllum þeim landaurategundum móti peningum, sem þar eru verðlagðar og meðalverð á 1 alin.

[4]) 1 ℂ í jörðu er líka 120 álnir.

1 mörk vegin, af smjöri, ull eða tólg, er 1 fiskur.

1 fjórðungur veginn, af smjöri, ull eða tólg, er 20 fiskar, eða 10 álnir.

1 vætt vegin, af hertum fiskitegundum, er á við 2 fjórðunga smjörs,

1 fjórðungur veginn, af hertum fiski, er 5 fiskar.

40 meðalþorskar hertir eiga að vega vætt; vegur þá hver þeirra 4 merkur.

Á Færeyjum er enn optlega við hafður hinn forni reikningur eptir gyllinum (krónum), skinnum og skildingum. 1 gyllini er 20 skinn; 1 skinn er 4 skildingar; 1 gyllini er því 5 mörk.

Í Sljesvík og á Holsetalandi er reiknað eptir *Reichsthaler Courant* (ríkisdölum), og er hver *Reichsthaler* 3 mörk, og hvert mark 16 *Schilling* (skildingar). Þar eð 1 spesía er talin 60 *Schill. Cour.* (en 1 *Reichsthaler Slesv. Hols. Courant* er ekki nema 48 *Schill. Cour.*), þá flýtur af því, að 1 *Schill.* Sljesv. Hols. *Cour.* er jafn $3\frac{1}{5}$ sk., að ríkisbankareikningi; 1 mark. *Cour.* er 3 mörk $3\frac{1}{5}$ sk., og 1 *Rthl. Cour.* er 1 rdl. 3 ℔ $9\frac{3}{5}$ sk. að ríkisbankareikningi. Aptur á móti er 1 *Rthl.* Sljesv. Hols. *Species-Banko* jafn 2 rdl. reiðu silfurs.

Athugas. Þessi kúrants reikningur í Sljesvík og á Holsetalandi er samkvæmur hinum forna kúrantsreikningi í Danmörk, nema að því leyti sem kúrantsdalnum í Danmörk var skipt í 96 sk., en 1 Rthl. Cour. í Sljesv. og á Hols. skiptist í 48 sk., svo að 1 sk. í Sljesv. og Hols. kúranti er jafnstór 2 dönskum kúrants skildingum.

## *B.* Önnur lönd.

### 1. *Norvegur.*

Í Norvegi er reiknað eptir „spesíudölum"; hver spes-

íudalur er 5 *ort*, og hvert *ort* er 24 sk. 1 spesíudalur er 2 rdl. danskir, 1 *ort* ($^1/_5$ spesíudals) er 2 mörk. $6^2/_5$ sk., 1 skild. norsk. er $1^3/_5$ sk. dansk.

Slegnir gullpeningar eru þar engir, en silfurpeningar þessir: 1 spesíudalur (120 sk. norsk. eða 2 rdl. dan.), hálfur spesíud. (60 sk. norsk., eða 1 rdl. dansk.), $^1/_5$ spesíud. (24 sk. norsk., eða 2 mörk $6^2/_5$ sk. dan.), $^1/_{10}$ spesíud. (12 sk. norsk., eða $19^1/_5$ sk. dan.), $^1/_{15}$ spesíud. (8 sk. norsk., eða $12^4/_5$ sk. dansk.); einnig eru þar 4 og 2 sk. norsk. Slegnir eirpeningar eru $^1/_2$, 1 og 2 skildinga peningar; eirpeningar þessir eiga að vera svo efnismiklir, að 40 sk. (norsk.) sjeu slegnir úr eirpundinu.

„Bankinn" í Þrándheimi hefur gefið út brjefpeninga, rauða, er gilda 100 spesíud., græna, er gilda 50 spesíud., gula, er gilda 10 spesíud., bláa, er gilda 5 spesíud., og hvíta, er gilda 1 ($^1/_2$ og $^1/_5$) spesíud.

## 2. *Svíþjóð.*

Í Svíþjóð er reiknað eptir ríkisdölum síðan 1845, og er hver ríkisdalur talinn 48 sk., og hver skildingur 4 „styfver". 1 ríkisdalur sænskur samgildir $48^{43}/_{100}$ sk. dönsk.

Á seinni tímum hafa þar gengið tvenns konar brjefpeningar, bankaseðlar (bankaríkisdalir og bankaskildingar) og ríkisskuldabrjef; en sá mismunur hefur verið á þeim, að 3 ríkisdalir í ríkisskuldabrjefum jafngiltu 2 ríkisdölum í bankaseðlum. Ríkisskuldabrjefin voru afnumin 1845, en eigi að síður er þó verðhæðin úr ríkisskuldareikningnum forna einnig sett síðan á bankaseðlana, sem hljóða upp á 2, 3, 5, $6^2/_3$, 10, $16^2/_3$, $33^1/_3$, 100 og 500 bankadali, og 8, 10, 12, 14, 16 og 32 bankaskildinga. 1 bankadalur sænskur samgildir 4 mrk. $8^3/_5$ sk. dönskum, og 1 bankask. $1^1/_2$ sk. dönskum, en 1 sk. í ríkisskuldabrjefum sænsk. er

jafn 1 sk. dönskum, þegar gangverðið stenzt á við peningaverðið[1].

Slegnir gullpeningar („dúkatar“) eru þar til, og gilda sumir þeirra á við 4 rdl. 10 sk. dansk., og sumir við 4 rdl. 9 sk. dansk. Spesíuríkisdalir í silfri gilda á við 2 rdl. $1^{7}/_{10}$ sk. dansk., en aðrir 2 rdl. $^{1}/_{2}$ sk. danskan[2], og allteins gilda $^{1}/_{2}$, $^{1}/_{4}$, $^{1}/_{8}$, og $^{1}/_{16}$ á við danska peninga að jöfnum hlutföllum. „Karólínur (Kristínur) og tvöföld mörk“ hin eldri (frá 1644—1777) gilda 3 mrk. $6^{4}/_{5}$ sk. dansk. *Örestykker* (eyrispeningar) eru eldri peningar

| | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| og | gilda | 10 | þeirra | (frá 1776) | 1 mrk. | $7^{7}/_{10}$ | sk. | danska. |
| - | — | 5 | — | (— 1776) | | $11^{17}/_{20}$ | — | —— |
| - | — | 4 | — | (— 1776) | | $5^{17}/_{20}$ | — | —— |
| - | — | 2 | — | (— 1776) | | $2^{37}/_{40}$ | — | —— |
| - | — | 1 | — | (— 1776) | | $1^{77}/_{100}$ | — | —— |

## 3. *Prússaland.*

Allstaðar á Prússalandi er reiknað eptir *Thaler*, frá því árið 1826. 1 *Thaler* er 30 *Silbergroschen*, eða 1 rdl. 1 mrk. $14\frac{857}{1000}$ sk. danskir. 1 *Silbergroschen* er 12 *Pfennige* eða $4\frac{57}{250}$ sk. danskir. 1 *Pfennig* er $\frac{1057}{3000}$ sk. dönskum.

Allt þangað til árið 1826 var þar reiknað eptir prússneskum *Courant-Thaler*, sem var 24 *Gutegroschen*, og 1 *Gutegroschen* 12 *Pfennige*. *Courant-Thaler* er enn mjög algengur í verzlunarviðskiptum um allan nyrðri hluta Þýzkalands. Sá er munurinn á *Silbergroschen* og *Gutegroschen*, að *Gutegroschen* er $5\frac{143}{500}$ sk. danskir.

---

[1]) Það heitir á dönsku: Coursen er al pari.

[2]) Samkvæmt brjefi innanríkis-ráðgjafans til stiptamtmannsins á Íslandi, dags. 12. d. aprílm. 1854, gilda sænskar spesíur (spesíudalir) í skyldugjöldum til jarðabókarsjóðsins ekki nema 1 rdl. 94 sk.

Gullpeningar ganga margir á Prússalandi, og eru þessir þeirra helztir, sem slegnir voru frá 1764—1821:

Prússneskur dúkat (eldri en 1787) gildir 4 rdl. $14^{31}/_{50}$ sk. dansk.

——— — (sleginn 1787) gildir 4 rdl. $12^{12}/_{25}$ sk. dansk.

*Frederiksd'or* einfaldur (sleginn 1764) gildir 7 rdl. $29^{7}/_{25}$ sk. dansk.

——— ——— ( ——— síðan 1770) gildir 7 rdl. $26^{3}/_{5}$ sk. dansk.

Þá eru enn til *Frederiksd'órar*, sem gilda 7 rdl. $14^{4}/_{5}$ sk. danska. Gullpeningarnir, sem mótaðir hafa verið frá, 1821 eru:

*Frederiksd'or* einfaldur, sem gildir 7 rdl. $26^{3}/_{5}$ sk. dansk.

——— hálfur, — — 3 rdl. $61^{3}/_{10}$ sk. —

——— tvöfaldur, — — 14 rdl. $53^{1}/_{5}$ sk. —

## 4. *Þýzkaland.*

Peningareikningurinn hefur verið þar mjög margbreyttur og á reiki, en er að líkjast hinum prússneska[1].

## 5. *England.*

Á Englandi eru gullpeningar *(sovereigns)* hafðir fyrir gjaldeyri, en silfurpeningar að eins álitnir sem smápeningar. Samkvæmt peningalögunum, sem dagsett eru 22. d. júním. 1816, eru gullpeningar einir og brjefpeningar gjaldgengir í öll þau gjöld, sem meiri eru en 40 *shillings*

---

[1]) Zweidrittel ($^{2}/_{3}$) Thaler (= tveir þriðjúngar dals) bæði hinir saxnesku og frá Mecklenborg og Lyneborg (Lauenborg) eru ekki gjaldgengir í jarðabókarsjóðinn á Íslandi nema fyrir 80 sk. lóðið, en Hamborgar Zweidrittel fyrir 1 rdl. lóðið, samkvæmt brjefi innanríkis-ráðgjafans, dags. 12, d. aprílm. 1854.

(þ. e. 17 rdl. 4 ₰ í gullverði, en 16 rdl. 2 ₰ 4 β í silfurverði).

Í öllu ríkinu er reiknað eptir *pounds* eða *livres* (£ *sterling*, pund sterling). Hvert pund sterling[1] er 20 *shillings* (merkt: *s.* eða *sh.*), 1 *shilling* er 12 *pence* (merkt: *d*).

1 pund sterling (£ *sterling*) er jafnt gullpeningi þeim er *sovereign* nefnist. Eptir því sem verið hefur til þessa, að gullið sje $15\frac{1}{4}$ dýrara en silfur, þá gildir 1 *sovereign* (síðan 6. d. febrúarm. 1817) 8 rdl. 5 ₰. Hálfir, tvöfaldir og fimmfaldir *sovereigns* gilda að jöfnum hlutföllum 10, 40 og 100 *s.* 1 *s.* gullverðs ætti þá að gilda á við 2 ₰ $10\frac{2}{5}$ β og 1 *d.* í gullverði $3\frac{8}{15}$ β. Gullpeningur sá, sem gekk á Englandi allt til 1816, var *guinea*, og gilti 21 *s.*, eða 9 rdl. 1 ₰ 10 β. Aðrar *guineur* voru þar og mótaðar um sömu mundir, og giltu 6 β minna; fimmfaldar, tvöfaldar, hálfar og þriðjungs *guineur* giltu að jöfnum hlutföllum. *Guineurnar* eru nú orðnar sjaldgæfar.

Slegnir silfurpeningar eru þessir á Englandi:

1 *crown* (króna, krossdalur heill) eða 5 *s.* gildir, ef hún er slegin síðan 22. d. júním. 1816, 2 rdl. $6\frac{6}{10}$ β danska[2]; hálfkróna ensk, eða $2\frac{1}{2}$ *s.*, gildir að því skapi í dönskum peningum. 1 *shilling*, eða 12 *d.* sterling, gildir 2 ₰ $7\frac{7}{10}$ β dan. 1 *sixpence*, eða $\frac{1}{2}$ *s.*, gildir 1 ₰ $3\frac{8}{10}$ β. dan. 1 *groat*, eða 1 *fourpence* sterling, gildir $13\frac{2}{10}$ β. dan. 1 *threepence*, eða $\frac{1}{2}$ *sixpence*,

---

[1]) Samkvæmt brjefi innanríkisráðgjafans, dags. 12. d. aprílm. 1854, gildir enskur sovereign í skyldugjöldum til jarðabókarsjóðsins ekki meira en 8 rd. 40 sk. 1850 gengu enskir sovereigns 9 rd. 4 sk. í Danmörku, því að gangverð þeirra er mjög breytilegt.

[2]) Ensk króna er gjaldgeng í jarðabókarsjóðinn fyrir 2 rdl. 4 sk. samkvæmt optnefndu brjefi innanríkis-ráðgjafans.

gildir 9⁹/₁₀ β. dan. 1 *twopence*, eða ½ groat, gildir 6⁶/₁₀ β. dan. 1 *penny* (einskildingurinn enski) gildir 3³/₁₀ β. dan.

Silfurpeningarnir, sem slegnir eru fyrir 1816, eru nokkuð verðhærri, svo að 1 *crown* gildir 2 rdl. 1 ₰ 3 β danska, 1 *s*. 2 ₰ 10¹/₁₀ β, 1 *threepence* 10⁵/₁₀ β, og hinir skildingarnir eru að því skapi á við danska peninga. Brjefpeningar eru alltíðir á Englandi í gjöldum og greiðslum, og hljóða þeir upp á 5 pund sterling og þaðan af meira, allt til 1000 punda sterling.

### 6. *Frakkland.*

Á Frakklandi er reiknað, síðan 28. d. marzm. 1803, eptir *franc*. 1 *franc* er 100 *centimes*, eða 20 *sous* (eða *sols*) og 1 *sou* er 5 *centimes*.

Gullpeningar ganga margir á Frakklandi, og eru þessir lögboðnir: 100 *francs* á að gilda, þegar búið er að móta hann, 35 rdl. 2 sk. danska, og 10 *francs* að því skapi. 40 *francs* gilda 14 rdl. 1 sk. dan. 20 *francs* 7 rdl. dan. Þó vantar á þá hina fyrri (40 *fr.*), sem slegnir hafa verið árin 1810—1840, að meðaltali 12 sk., og á þá, sem síðan hafa verið slegnir, allt til 1850, 16 sk. Á 20 *francs* peningana, sem slegnir hafa verið 1810—1840, vantar að meðaltali 5 sk. Miklu fleiri gullpeningar (*Louisd'or*-arnir) ganga á Frakklandi, sem sjaldnar koma fyrir. Gullið er metið 15½ sinnum dýrara en silfur.

Silfurpeningar eru þar þessir helztir: 5 *francs* gildir 1 rdl. 4 mrk. 11 sk.[1]. 2 *francs* gildir 4 mrk. 4 sk. 1 *franc* gildir 2 mrk. 2 sk. (eða nákvæmar 2 mrk. 1⁸²⁹/₁₀₀₀ sk.).

---

[1]) Samkvæmt títt nefndu brjefi innanríkis-ráðg. eru 5 francs gjaldgengir í jarðabókarsjóðinn fyrir 1 rdl. 4 mrk. 7 sk., og 20 francs gullpeningur fyrir 6 rdl. 4 mrk.

$^1/_2$ *franc,* eða 50 *centimes,* gildir 1 mrk. 1 sk. $^1/_4$ *franc,* eða 25 *centimes,* gildir 9 sk. 10 *centimes* gildir 3 sk. 5 *centimes,* eða 1 *sou,* gildir $1\,^1/_2$ sk. (eða nákvæmar $1\,^{69}/_{1000}$ sk.). Fyrrum, og allt þangað til 1796, var reiknað á Frakklandi eptir *Livres,* hver *livre* var 20 *sou,* og hver *sou* 12 *deniers tournois.* Hver *livre tournois* hefur því verið nokkuð minni en 1 *franc* (eða nákvæmlega 2 mrk. $1\,^{015}/_{1000}$ sk.).

### 7. *Holland.*

Frá því árið 1816 er þar reiknað eptir *Gylden* (merkt: *fl.*), og 1 *Gylden* er 100 *Cents.* Allt þangað til hafði 1 *Gylden* verið 20 *Styver,* og 1 *Styver* 16 *Pfennige* hollenzkir; 1 *Styver* er því = 5 *Cents.* Kúrantsreikningur er þar einn við hafður. Gangverð peninga er þar þrenns konar:

*a)* Gangverðið fyrir 1816. Eptir því gangverði eru til gullpeningar, sem nefnast *Ryder* heilir, = 14 *fl.* að hollenzkum kúrantsreikningi, þeir gilda 11 rdl. $^2/_{10}$ sk., hálfir *Ryder* gilda að því skapi, og dúkatar 4 rdl. 13 sk. Silfurpeningar eru 3 *Gylden,* eða *Statgylden,* að meðaltali 2 rdl. 1 mrk. $9\,^5/_{10}$ sk., 1 *Gylden* einnig að meðaltali 4 mrk $7\,^8/_{10}$ sk. 1 *Styver,* eða 5 *Cents,* er $13\,^{855}/_{1000}$ sk., 1 kúrantsdalur (sleginn 1659) er 1 rdl. 5 mrk. $9\,^1/_{10}$ sk., 1 *Ryder* silfurs, eða *Ducaton,* er 2 rdl. 2 mrk. $7\,^9/_{10}$ sk.

*b)* Gangverðið eptir 28. d. septemberm. 1816. Gullpeningar eru síðan 10 *Gylden,* sem eru 7 rdl. 1 mrk. $11\,^9/_{10}$ sk, 5 Gylden (síðan 22. d. desemberm. 1825) að því skapi, eða þó 3 rdl. 3 mrk. $14\,^7/_{10}$ sk., 1 gulldúkat 4 rdl. $11\,^8/_{10}$ sk. Silfurpeningar eru 3 *Gylden,*[1] sem eru 2 rdl. 1 mrk. 11 sk.,

---

[1]) Niðurlenzkir (= hollenzkir) 3 gyllinapeningar (einfætlingar) eru gjaldgengir í jarðabókarsjóðinn eptir vigt, fyrir 1 rdl. lóðið, eins er því varið með hollenzka Albertus-dali, samkvæmt þráttnefndu brjefi innanríkis-ráðgjafans.

1 *Gylden* er 4 mrk. 9 sk., $^1/_2$ (50 *Cents),* $^1/_4$ (25 *Cents),* $^1/_{10}$ (10 *Cents),* $^1/_{20}$ *Gylden* (5 *Cents)* að jöfnum hlutföllum. 1 *Ryder* silfurs, eða *Ducaton,* er 315 *Cents,* eða 2 rdl. 2 mrk. $7^7/_{10}$ sk. 1 silfurdúkat, eða niðurlenzkur dalur, er 250 *Cents,* eða 1 rdl. 5 mrk. $9^1/_{10}$ sk. Eirpeningar eru heil og hálf *Cents.*

*c)* Gangverðið síðan 22. d. marzm. 1839. Gullpeningarnir, 10 *Gylden* og 5 *Gylden,* eru jafngildir gyllinunum í stafllið *b),* og sömuleiðis gulldúkatarnir. Silfurpeningar eru dalir, er gilda $2^1/_2$ *Gylden,* eða 1 rdl. 5 mrk. $3^4/_{10}$ sk. 1 *Gylden* gildir 100 *Cents,* eða 4 mrk. $7^{77}/_{100}$ sk., $^1/_2$ (50 *Cents),* $^1/_4$ 25 *(Cents),* $^1/_{10}$ (10 *Cents),* $^1/_{20}$ *Gylden* (5 *Cents)* ganga að jöfnum hlutföllum við 1 *Gylden.* Eirpeningarnir eru síðan 1839 heil og hálf *Cents.*

## 8. *Belgía.*

Þar eru peningar reiknaðir nú, eins og á meðan Belgía var háð Frökkum, eptir *francs,* 1 *franc* skiptist í 100 *centimes* (sbr. Frakkland); 189 *Gylden* (merk *fl.* = *Florin,* eða *Florind'or.* þ. e. gullpeningur) að hollenzkum kúrantsreikningi eru talin jöfn 400 *francs.* Á meðan Belgía og Holland voru eitt ríki, var reiknað í Belgíu eptir *Gylden;* 1 *Gylden* var *100 cents,* 1 *Gylden* var og 20 *Styver,* og 1 *Styver* 16 *Pfennige* jafngildir og í Hollandi (sbr. Holland). Tíðum var þá og reiknað eptir Brabanta-kúranti, sem að fornu var tíðkaður, þannig voru 100 *francs* = $47^1/_4$ *fl.* niðurlenzk, eða Brabanta-víxlpeningur (400 *francs* = 189 *Gylden),* eða 55 $^1/_8$ *fl.* í Brabanta-kúranti. 6 *fl.* í Brabanta-víxlpeningum voru þá jöfn 7 *fl.* í Brabanta-kúranti. Alstaðar í Belgíu er 1 *Gylden* í Brab. kúr. (sem gengur 1 *franc* 81 *centimes)* og 1 víxlgyllini nú skipt í 20 *sous,* og 1 *sou* í 4 *liards,* eða 12 *Pfennige.*

Gullpeningar eru þar 1 *Souverainsd'or*, hann gengur 6 rdl. 5 $^7/_{10}$ sk., en tvöfaldir ganga 12 rdl. 1 mrk. 5 $^6/_{10}$ sk. 1 *Souverainsd'or* brabanzkur gengur 6 rdl. 8 $^2/_{10}$ sk., og tvöfaldir hjer um bil eins að tiltölu. *Dúkatar* ganga 4 rdl. 11 $^3/_{10}$ sk. 1 *Lionsd'or* (gullljón), sleginn 1790, gengur 14 *fl.*, eða 9 rdl. 14 $^8/_{10}$ sk.

Silfurpeningar eru *Ducatons* brabanzkir, slegnir 1749, þeir ganga venjulega ekki meira en 2 rdl. 1 mrk. 9 $^{14}/_{100}$ sk., $^1/_2$, $^1/_4$ og $^1/_8$ *Ducaton* að því skapi. 1 krónudalur brabanzkur (sleginn 1755) gengur venjulega 2 rdl. 1 mrk. $^{95}/_{100}$ sk., $^1/_2$ og $^1/_4$ krónudals að því skapi. *Escalins* (brabanzkir skildingar), slegnir 1749, ganga 1 mrk. 5 $^{554}/_{1000}$ sk. tvöfaldir *Escalins* ganga hjer um bil að því skapi, en $^1/_2$ *Escalin* ekki nema 9 $^{842}/_{1000}$ sk. 5 *Styver* í brabönzkum kúranti, slegnir 1749, ganga 15 $^{403}/_{1000}$ sk. *Lövedaler*, slegnir 1790, ganga 3 $^1/_2$ *fl.*, eða 2 rdl. 1 mrk. 9 $^{26}/_{100}$ sk. 1 *Gylden* belgiskt, sleginn 1790, gengur 20 *Styver*, eða 3 mrk. 13 $^{277}/_{1000}$ sk., og hálfur *Gylden* 1 mrk. 14 $^{463}/_{1000}$ sk.

Athugas. Þessar peningategundir í Belgíu eru allar frá því tímabili, sem Niðurlöndin voru háð Austurríkismönnum. Á meðan Belgía var háð Frökkum (1793—1814), voru þar sömu peningar og á Frakklandi. Á meðan Belgía og Holland voru eitt ríki (1817—1834), voru peningar sameiginlegir í báðum. Síðan Belgía varð konungsríki sjer í lagi (eða rjettara sagt frá því 5. d. júním. 1832), er peningareikningur þar nálega allur hinn sami, sem á Frakklandi. Síðan hafa þar verið slegnir 20 og 40 francs gullpeningar, er í þeim $^9/_{10}$ gulls og $^1/_{10}$ af eir; einnig 5, 2, 1, $^1/_2$ og $^1/_4$ franc í silfurpeningum, og eru í þeim $^9/_{10}$ silfurs og $^1/_{10}$ af eir.

## 9. *Spán.*

Venjulega telja menn peninga á Spáni eptir *Reales de Vellon*, og er hver 34 *Maravediis de Vellon* að

*Kastilíu*-reikningi, sem er hinn almennasti af 9 peningareikningum, sem á Spáni eru.

Gullpeningar (mótaðir 1730—1772) eru *Onzas de oro,* ferfaldar *pístólur (Quadrúplur),* þær gilda 29 rdl. 5 mrk. 10 sk., en þær, sem slegnar voru 1740—1767, 29 rdl. 3 mrk. 8 sk., (og þó reyndar ekki nema 29 rdl. 2 mrk. 1 sk.). *Dúblónur,* tvöfaldar *pístólur,* gilda 4 gulldali, eða 14 rdl. 5 mrk. 13 sk. *Pístólur* gilda 2 gulldali, eða 7 rdl. 2 mrk. 14 sk. 1 *Escudillo de oro,* lítill gulldalur, gildir 1 rdl. 5 mrk. $7^4/_{10}$ sk. (eða reyndar 1 rdl. 5 mrk. $5^3/_{10}$ sk.).

Gullpeningar (slegnir 1772—1786) eru *Onzas de oro,* ferfaldar *pístólur (quadrúplur),* sem gilda 29 rdl. 1 mrk. 9 sk. (eða reyndar 29 rdl. 8 sk.). *Dúblónur* gilda 14 rdl. 3 mrk. 12 sk. (eða reyndar 14 rdl. 3 mrk. 4 sk.). *Pístólur* gilda 7 rdl. 1 mrk. 14 sk. (eða reyndar 7 rdl. 1 mrk. 10 sk.), og hálfar pístólur að því skapi. *1 Escudillo de oro, Coronilla,* eða gullpjastur, gildir 1 rdl. 5 mrk. $5^3/_{10}$ sk. (eða reyndar 1 rdl. 5 mrk. $3^2/_{10}$ sk.).

Gullpeningar (slegnir síðan 1786) eru *Onzas de oro, quadrúplur,* sem gilda 28 rdl. 3 mrk. 4 sk. (en reyndar ekki nema 28 rdl. 1 mrk. 9 sk, og hinar nýjustu 27 rdl. 4 mrk. 13 sk.). *Dúblónur,* $^1/_2$ *Onzas,* gilda 14 rdl. 1 mrk. 10 sk. (en reyndar 14 rdl. $12^1/_2$ sk.). *Pístólur* gilda 7 rdl. 13 sk., og hálfar *pístólur* að því skapi. 1 *Escudillo de oro, Coronilla,* eða gullpjastur, gildir 1 rdl. 4 mrk. $6^5/_{10}$ sk. (en reyndar 1 rdl. 4 mrk. $3^4/_{10}$ sk.).

Silfurpeningar (slegnir 1707—1772) eru pjastur, *Seviliansk Stück von Achten,* sem gildir 1 rdl. 5 mrk. 14 sk., eins gildir *Mexicansk Stück von Achten* og *Mexicansk pilar* (stólpadalur). *Mexicansk pilar* með 2 hálfkúlum (sleginn 1765—1768) gildir 1 rdl. 5 mrk. 10 sk. *Provincialpjastur* (síðan 1701), *Reales,* sem er 8 *Sevillanos,* gild-

ir 1 rdl. 3 mrk. 8 sk. Pjastrar (slegnir 1718), sem eru 16 *Reales de Vellon*, gilda 1 rdl. 3 mrk. 11 sk. Hálfir pjastrar (slegnir 1718) sömu tegundar, *Reales*, sem eru 4 *Sevillanos*, gilda 4 mrk. $13^{5}/_{10}$ sk. *Pesetas provinciales*, 4 *Reales de Vellon*, gilda 2 mrk. $6^{75}/_{100}$ sk. Hálfar *pesetas provinciales*, *Reales de plata provinciales*, gilda 1 mrk. $3^{4}/_{10}$ sk.

Silfurpeningar, slegnir samkvæmt peningalögunum 29. d. maím. 1772, eru *pesos duros ó fuertes* (silfurpjastrar harðir), sem gilda 8 *Reales de plata mexicana*, eða 20 *Reales de Vellon*, eða 1 rdl. 5 mörk 10 sk. *Escudos de Vellon ó medios duros* (hálfir silfurpjastrar) gilda 10 *Reales de Vellon*, eða 5 mörk 13 sk. *Quart-pjaster* ($^{1}/_{4}$ pjasturs), *pesetas Mexicanas* eða *columnarias*, gildir 2 mrk. $14^{5}/_{10}$ sk., $^{1}/_{8}$ og $^{1}/_{16}$ pjasturs gilda að jöfnum hlutföllum.

Silfurpeningar (slegnir 1772—1821) eru silfurpjastrar, sem gilda að meðaltali 1 rdl. 5 mrk. $7^{6}/_{10}$ sk., en nýrri pjastrarnir (frá þessu tímabili), sem hafa verið reyndir á Englandi, gilda 1 rdl. 5 mrk. $6^{5}/_{10}$ sk. Silfurpjastrar (slegnir 1815 og 1821, og reyndir á þýzkalandi) gilda 1 rdl. 5 mrk. $7^{4}/_{10}$ sk[1]. *Pesetas provinciales* gilda 4 *Reales de Vellon*, eða 2 mrk. $4^{4}/_{10}$sk.

## 10. *Portúgal.*

Þar er reiknað eptir *Reïs* eða *Rees* (merkt *Rs.*) 100 *Rs.* eru 1 *Milreï*, og 1000000 *Rs.* er *Conto (de Reïs).* 1 *Mildreï* er jafn 2 rdl. $14^{14}/_{100}$ sk.

Gullpeningar (slegnir fyrir 24. d. aprílm. 1835) eru helztir *Dobraos*, þeir gilda 24000 *Rs.* eða 59 rdl. 2 mrk.

[1]) Samkvæmt þráttnefndu brjefi innanríkis-ráðgjafans ganga pjastrar í skyldugjöld til jarðabókarsjóðsins á 1 rdl. 84 sk.

14 sk., en þeir, sem slegnir voru 1725, 59 rdl. 13 sk., og hálfir *Dobraos* að tiltölu við hina fyrri[1]. *Lisbonine* eða *Moeda d'ouro*, gildir 4800 *Rs.* ($^1/_5$ *Dobra*) eða 11 rdl. 5 mrk. 6 sk. (en reyndar ekki nema 11 rdl. 5 mrk. 3 sk.), hálfur *Lisbonine* gildir að tiltölu við hina fyrnefndu. 1 *Milreï*, $^1/_{20}$ *Dobr.*, gildir 2 rdl. 5 mrk. 14sk, (en reyndar 2 rdl. 5 mrk. $3^4/_{10}$ sk.). 1 gull-*Crusado*[2], $^1/_{30}$ *Dobr.*, gildir 480 *Rs.*, eða 1 rdl. 2 mrk. $2^{26}/_{100}$ sk. (en reyndar 1 rdl. $15^{04}/_{100}$). 1 *Johannes*-peningur, $^1/_2$ *Dobra*, gildir 15 rdl. 5 mrk. 3 sk. (en reyndar 15 rdl. 4 mrk. 9 sk.,). $^1/_2$ *Dobra* (slegin 1830) gildir 15 rdl. 4 mrk. 13 sk. $^1/_4$ *Dobra*, sem gilti 3200 *Rs.*, er hækkuð í verði og gildir 3750 *Rs.*, eða 7 rdl. 5 mrk. 9 sk. (en reyndar 7rdl. 5 mrk. 1 sk.). 1 *Escudo* gildir 1600 *Rs.*, eða 3 rdl. 5 mrk. 13 sk. (en reyndar 3 rdl. 5 mrk. 9 sk.,) og $^1/_2$ *Escudo* eins að tiltölu.

Gullpeningar (slegnir eptir 24. d. aprílm. 1835) eru *Corōas d'ouro*, eða gullkrónur, sem ganga 5000 *Rs.*, eða 10 rdl. 3 mrk. 7 sk. *Meios-Corōas d'ouro*, eða $^1/_2$ gullkróna, ganga 2500 *Rs.*, eða 5 rdl. 1 mrk 12 sk.

Silfurpeningar (slegnir fyrir 24. d. aprílm. 1835) eru 1 *Crusado*, sem gengur 480 *Rs.*, eða 1 rdl. 1 mrk. $5^2/_{10}$ sk. en hinir nýju að meðaltali þó ekki nema 1 rdl. $2^8/_{10}$ sk. *Crusado*, sleginn 1802, gengur að meðaltali 1 rdl. $2^9/_{10}$ sk., og þeir, sem slegnir voru 1809, ganga 1 rdl. $1^9/_{10}$ sk., og þeir, sem voru slegnir 1835, ganga 1 rdl. 4 sk. 6 *Vintems*-peningar, slegnir 1802, ganga 120 *Rs.*, eða 1 mrk. $7^{05}/_{100}$ sk., og hálfir að því skapi. 1 *Testōn*, sleginn 1802,

---

1) Þar að auki eru til Dobras, sem giltu 12800 Rs., en hækkuðu í verði, svo að þeir gilda 15000 Rs. eða 31 rdl. 4 mrk. 5 sk., en þeir, sem mótaðir voru 1730, gilda reyndar 31 rdl. 2 mrk. 15 sk.

2) Gamall gull-crusado gildir 400 Rs., eða 5 mrk. $15^{25}/_{100}$ sk.

gengur 100 *Rs.*, eða 1 mrk $4^{96}/_{100}$ sk., og $^{1}/_{2}$ *Testõn,* sleginn 1802, 50 *Rs.*, eða $10^{04}/_{100}$ sk.

Silfurpeningar (slegnir síðan 24. d. aprílm. 1835) eru *Corõas,* silfurkrónur, sem ganga 1000 *Rs.*, eða 2 rdl. $14^{1}/_{10}$ sk. og *Meios Corõas,* hálfar silfurkrónur, 500 *Rs.*, eða 1 rdl. 7 sk. Smærri peningar eru þar og, sem ganga 200 *Rs.*, eða 2 mrk. $9^{2}/_{10}$ sk., og 100 *Rs.*, eða 1 mrk. $4^{6}/_{10}$ sk.

## 11. *Rússland.*

Þar eru peningar reiknaðir eptir *Rubl* (eða *Rubli,* rúblum), 1 *Rubl* er 100 *Kopeika.*

Gullpeningar eru *Imperialer* (síðan 1764 og 1797—1825) og ganga þeir 10 *Rubl* gullverðs, eða 14 rdl. 2 mrk. 13 sk.; hálfir *Imperialer,* eða *pístólur,* sem ganga 5 *Rubl* gullverðs, eða 5 *Rubl* 15 *kopeika* silfurverðs, eða 7 rdl. 1 mrk. 7 sk. *Imperialducat* gengur 3 *Rubl* silfurs, eða 20 *Zlote polski* (frá því 1. d. maí 1834), eða 4 rdl. 2 mrk. 1 sk., en hinir eldri, sem slegnir voru 1798 og 1801, ganga 5 *Rubl,* eða 7 rdl. 1 mrk. 7 sk., og þó gilda þeir, sem slegnir voru 1798, reyndar ekki nema 7 rdl. 7 sk. 9 tegundir dúkata ganga í Rússlandi, og er 1 mrk. munur á hinum minnsta (frá 1814, er gengur 3 rdl. 94 sk.) og hinum mesta (frá 1796—1797, er gengur 4 rdl. 14 sk.), en að meðaltali ganga þeir 4 rdl. $7^{3}/_{9}$ sk.

*Platínu-* (hvítagulls-) peningar voru þar slegnir frá 24. d. aprílm. 1828 til 22. d. júním. 1845, síðan er því hætt. Platínudúkatar ganga 4 mrk. 15 sk., og tvöfaldir og ferfaldir platínudúkatar ganga hjer um bil að tiltölu við einfalda.

Silfurpeningar eru *Rubl* (síðan 1810 og 1813), sem ganga 1 rdl. 2 mrk. $8^{6}/_{10}$ sk. $^{1}/_{2}$, $^{1}/_{4}$, $^{1}/_{5}$, $^{1}/_{10}$ og $^{1}/_{20}$

*Rubl* ganga að því skapi. 15 *kopeika* ganga 1 gyllini pólskt (síðan 1832), eða $20^{62}/_{100}$ sk. $1^{1}/_{2}$ *Rubl* gengur 10 *Zlote*, eða 2 rdl. $14^{3}/_{10}$ sk. $^{3}/_{4}$ *Rubl* ganga 5 *Zlote*, eða 1 rdl. $7^{15}/_{100}$ sk.

### 12. *Bandaríkin í Norður-Ameríku.*

Þar eru peningar reiknaðir eptir *dollars*, 1 *dollar* er 100 *cents*; sú er og önnur skipting á *dollar*, að honum er skipt í 10 *dimes*, 1 *dime* er 10 *cents*, 1 *cent* er 10 *mils*.

Gullpeningar eru *eagles* (arnir); 1 *eagle* er 10 dollars, eða (samkvæmt peningalögunum frá 2. d. aprílm. 1792 til 31. d. júlím. 1834) 19 rdl. 2 mrk. 1 sk., frá 1834 til 1837 gengu þær 18 rdl. 13 sk., og samkvæmt peningalögunum, sem nú eru þar, (síðan 18. d. janúarm. 1837), ganga þær 18 rdl. 15 sk. $^{1}/_{2}$ og $^{1}/_{4}$ *eagles*, sem slegnar hafa verið á þessum þremur tímabilum, ganga að tiltölu við hinar heilu.

Silfurpeningar eru *dollars* (pjastrar); þeir ganga 100 *cents* eða 1 rdl. 5 mrk. 7. sk. (en reyndar gilda þeir að eins 1 rdl. 5 mrk. 5 sk.). $^{1}/_{2}$, $^{1}/_{4}$, $^{1}/_{10}$ (1 *dime*) og $^{1}/_{20}$ ($^{1}/_{2}$ *dime*) *dollar* gengur að tiltölu við heilan.

## II. *Vigt.*

### *A. Danmörk.*

(Vigtin er löguð og ákveðin eptir 1 teningsfeti af hreinu vatni, er tekur 32 potta, og á að vega 62 ℔ (pund) samkvæmt tilskip. dags. 10. d. janúarm. 1698).

#### 1. Verzlunarvigt.

1 *Ctn (centner)* er 100 ℔ (pund).

1 sk℔ (skippund) er 20 L℔ (lýsipund).

1 l℔ er 16 ℔.

1 ℔ er 32 lóð.

1 lóð er 4 kvíntin. 1 kvintin er 4 *ort.*

1 vætt hjer á landi er 8 fjórðungar.

1 fjórð. er 20 merkur, eða 10 ℔.

1 mörk er 16 lóð.

(1 vog — á Færeyjum og í Norvegi — er 3 *bismer*-pund.

1 *bismer*-pund er 12 ℔ (dönsk).

1 sk℔ af hör er 16 *Steen.*

1 *Steen* af hör er 20 ℔.

1 *Steen* af ull eða fiðri er ekki nema 10 ℔).

2. Smjörvigt.

(Smjör, kjöt, sápa, tólg, mjöl, fiskur, o. s. frv.).

1 tn. (tunna) af smjöri er 2 hálftunnur.

1 hálftn. er 2 kvartil, eða 7 l℔.

1 kvartil (tunnufjórðungur) er 2 áttungar, eða 3½ l℔.

1 áttungur er 2 hálfáttungar, eða 28 ℔.

1 hálfáttungur er 14 ℔[1].

3. Silfurvigt.

1 ℔ er 2 merkur, eða 32 lóð.

1 mörk er 8 *únsíur.*

1 únsía er 2 lóð.

1 lóð er 4 kvíntin.

1 kvíntin er 4 *ort.*

1 *ort* er 16 *Es.*

(Silfur og gullvigtin er kölluð „kolnsk vigt", og 17 ℔, eða 34 merkur af þessari vigt, eiga að vera jafnþung og 16 ℔ að danskri verzlunarvigt. Mörkin er talin 16 lóð, hvert lóð 18 *Green* af skíru silfri. Í mörk-

---

[1]) Feitartunnan á að vera 4¼ teningsfet að innanmáli. Tunnuþriðjungur á að vega tómur 1 lpd., og ílát, er taka 2 tunnur, 3 lpd. 12 pd., samkvæmt tilskip. um tollgreiðslu og skipagjald í Danm., dags. 1. d. maímán. 1838.

inni af Kaupmannahafnar prófsilfri eru ekki nema 13 lóð 6 *Green* af skíru silfri[1], og þess vegna 2 lóð og 12 *Green* af eir).

4. Gullvigt.

1 ℔ er 2 merkur.

1 mörk er 24 *karat*.

1 *karat* er 4 grön eða 12 *Green*.

1 gran er 3 *Green*.

(Ósmíðað gull og silfur er selt í stöngum *(Barrer)*. Ósmíðað gull er venjulega 15 $^1/_4$ sinnum dýrara en ósmíðað silfur).

5. Lyfjavigt.

1 ℔ er 12 únsíur.

1 únsía er 8 *drökmur*.

1 *drakma* er 3 *skrúplar*.

1 *skrúpull* er 20 grön.

(1 únsía er hjer um bil 2 lóð, 1 drakma er hjer um bil 1 kvíntin, 1 skrúpull er þriðjungur úr 1 kvíntini, og 1 gran er á þyngd við 1 byggkorn, eða 2 dropa vatns. 100 ℔ af lyfjavigt eru hjer um bil eins og 17 $^1/_2$ ℔ af verzlunarvigt).

## *B. Önnur lönd.*

### 1. *Norvegur.*

Þar er sama vigt og í Danmörku, nema *bismer*-pundið (sbr. II. A. 1.), sem er 12 ℔.

### 2. *Svíþjóð.*

Vigtin er þar margháttuð, en þó er sú vigt yfirgripsmest, sem *Victualie-vigt* er kölluð; því að hún er verzlunarvigt og gullvigt og silfurvigt.

---

[1]) 1 mörk af skíru silfri er 18 $^1/_2$ rdl.

*a)* Verzlunarvigt og gull- og silfurvigt.

1 sk℔ er 20 l℔, 1 l℔ er 20 skálapund, eða merkur.

1 skálapund, eða 1 mörk, er 32 lóð, 1 lóð 4 kvíntin.

1 mörk gulls, eða silfurs, er 16 lóð.

1 sk℔ er jafnt 340℔ dönskum.

1 *Centner* er venjulega 100 ℔, og er = 85 ℔ dönsk.

1 *Centner* af ull er 120 skálapund.

1 *Sten* af ull er 32 skálapund.

1 *Waag* (vog) af tini er 165 skálapund.

*b)* Málmvigt.

Þessi vigt er höfð við allt það járn og skíran eir, sem burt er flutt af Svíþjóð, nema frá *Gefle,* því að þar er pundið nokkru þyngra.

1 sk℔ er 20 l℔, 1 l℔ er 20 ℔ (eða merkur).

1 sk℔ af þessari vigt er 320 ℔ af *Victualie*-vigt.

1 sk℔ er = $320^{062}/_{1000}$ ℔ dönskum, og 1 pund = $^{680}/_{1000}$ ℔ dönsk.

*c)* Lyfjavigt skiptist eins og í Danmörku, og hefur sömu nöfn, nema *Libra* í staðinn fyrir pund, sú vigt er þeim mun ljettari, að 1 *Libra* er = $^{995}/_{1000}$ ℔ danskt.

## 3. *Prússaland.*

1 *Centner* er 110 ℔; pundið skiptist í lóð og kvíntin eins og í Danmörk, en er nokkru ljettara en danska pundið; því að 31 prússneskt ℔ er jafnt 29 ℔ dönskum.

## 4. *Þýzkaland.*

Í tollsambandinu í Prússaveldi og norðurhluta Þýzkalands er haft pund það, sem kallað er tollpund og vegur $^1/_2$ *kilogram* (sbr II. B. 6.) frakkneskt, eða 1 pnd. danskt. 100 tollpund eru talin 1 *Centner*.

## 5. *England.*

Þar er tvenns konar vigt: *avoirdupois* og *troypound.*

*a)* Pundið á enska vöruvog (*avoirdupois,* framber: *avoar-dupoa*) er þeim mun ljettara en hið danska, að 97 pnd. ensk eru jafnþung 88 dönskum. 1 *ton* er 20 *hundredweights,* eða *centweights,* eða *Centner;* 1 *Centner* er 4 *quartors,* eða 112 pnd. 1 *ton,* sem er 2240 pnd. ensk, er því 6 skpd. 7 l℔ á danska verzlunarvog. Pundið skiptist í 16 únsíur (*ounces,* framb.: *ánses*), og hver únsía í 16 drökmur (*drams*), 1 *dram* er 3 *scruples,* 1 *scruple* er 10 *grains.*

*b)* Á peninga og lyfjavog er pundið (*troy-pound*) ljettara; því að á peningavog er 1 pnd. 12 únsíur, 1 únsía 20 *pennyweights,* 1 *pennyweight* er 24 *grains* (grön). Á lyfjavog er 1 pnd. 12 únsíur, 1 únsía 8 drökmur, 1 drakma 3 skrúplar, 1 skrúpull 20 grön.

Pundið er því jafnþungt, hvort heldur er á peningavog eða lyfjavog; því að á hvoratveggja vogina skiptist pundið í 12 únsíur, og únsían í 480 grön; en vöruvogarpundið er þeim mun þyngra, að það er 7000 lyfjavogargrön, en lyfjavogarpundið 5760 lyfjavogargrön, og 144 *avdp.* er = 175 *troy-pounds.*

## 6. *Frakkland.*

Vigtin er byggð á vatns þunga þeim, sem rúmast í teningsmynduðu íláti, sem er að stærð $^1/_{100}$ *metre* á hvern veg; vatnið á að vera sem þjettast, við 4° *C.* hita, því að þá fer minnst fyrir því. Þessi þungi heitir *gramme*[1]; 1000 *gram.,* eða það sem 1 *litre* af hreinsuðu vatni vegur, heitir *kilogramme;* 1 *kilogram.* er 10 *hectogram.,* 1 *hectogram.* er 10 *decagram.,* 1 *decagram* er 10 *gram.,*

[1]) Sbr. III. B. 6. b) c).

1 *gram.* er 10 *decigram.*, 1 *decigram.* er 10 *centigram.*, 1 *centigram.* er 10 *milligram.*, 1 *myriagram* er 10 *kilogram.*, eða 10000 *gram. 1 quintal metrique (Centner)* er 100 *kilogram.*, 1 *kilogram.* er jafn 2 pnd. dönskum. (sbr. II. B. 4.).

Þessi vigt Frakka, sem kölluð er *metrisk* vigt, er einnig höfð fyrir gull- og silfur- og lyfjavigt.

### 7. *Holland.*

Vigt er þar öll hin sama og á Frakklandi (síðan 1821 og 1823) við verzlun, gull og silfur, en öðrum nöfnum er hún þar nefnd: 1 *Pond (= kilogram.)* er 10 *ons (= hectogram.)*, 1 *ons* er 10 *lood (= decagram.)*, 1 *lood* er 10 *Wigtje (= gram.)*, 1 *Wigtje* er 10 *korrel (= decigram.).*

Lyfjavogarpundið er 12 *Ons*, 1 *Ons* er 8 *Drachm.*, 1 *Drachm.* er 3 *Scrupl.*, 1 *Skrupl.* er 20 *Grein;* lyfjavogarpundið er því 5760 *Grein*, og ekki meira en $^5/_8$ af vöruvogarpundi Hollendinga.

### 8. *Belgía.*

Þar er sama vigt og á Frakklandi, og heitir sömu nöfnum.

### 9. *Spán.*

1 *Quintal macho*, eða hið stærra *Centner*, er 6 *arrobas* eða 150 *libras* (pund), en hið almenna *Centner*, eða *quintal*, er 4 *arrobas* eða 100 *libras.* 1 *arroba* er 25 *libras*, eða 4 *cuartillas*, 1 *cuartilla* er 4 *onzas*, 1 *onza* er 8 *ochavas.* 1 *libra* er 2 *marcos* (merkur).

Þetta pund, sem kallað er Kastilíupund, er þeim mun minna en danskt pund, að 25 Kastilíupund eru 23 pnd. á danska verzlunarvog. Mörkin er höfð fyrir gullvigt,

silfurvigt og lyfjavigt. Ýmsa aðra vigt hafa Spánverjar einnig.

### 10. *Portúgal.*

1 *Quintal* er 4 *arrobas* (sbr. II. B. 9.), eða *arratels*. 1 *arroba* er 32 *libras* (pund), þá er 61 ℔ í Portúgal jafnt 56 pnd. dönskum.

### 11. *Rússland.*

1 *berkowetz* (skpnd.) er 10 *pud*, 1 *pud* er 40 pund, 1 pund er 32 lóð, 1 lóð er 3 *solotnik*.

Rússneska pundið er þeim mun minna, en hið danska, að 400 rússnesk pund, eða 1 *berkowetz*, eru að eins $327\,{}^{61}/_{100}$ pund dönsk.

### 12. *Bandaríkin í vesturheimi.*

Vigtin er hin sama og á Englandi.

## III. *Mál.*

### A. *Danmörk.*

#### 1. Vörur.

(Salt, steinkol, börkur, korn, kúmen, kalk, síld, ávextir, smjör, kjöt, flesk, aðrar feitartegundir, o. s. frv.)

1 lest af steinkolum eða berki er 18 tunnur, hver tunna 10 skeppur; 1 lest ef spánsku salti er 18 tunnur, hver tunna 8 skpp.

1 lest af korni, frakknesku salti, o. s. frv. er 12 tunnur, 1 tunna 8 skpp., 1 skeppa er 4 fjórðungsker, 1 fjórðk. er 2 áttungar, 1 áttungur er tveir hálfáttungar, 1 hálfáttungur er $1^{1}/_{8}$ pott., 1 pottur er 4 pelar.

(Steinkola og barkartunna á að vera $5^{1}/_{2}$ teningsfet að innanrúmi og tekur 176 potta; korn og kalktunna er

$4\frac{1}{2}$ teningsfet að innanrúmi og tekur 144 potta; salt er mælt í sama tunnumáli og korn. Mjöl, smjör, tólg, sápa, kjöt, fiskur, lýsi og aðrar verzlunarvörur, er mælt í tunnumáli því, sem öl er mælt í, og tekur 136 potta.

1 tunna af norsku salti á að vega 250 pnd.

1 *Kartel* er mælir við verzlunina á Grænlandi, er tekur $2\frac{1}{2}$ tunnu danska.

1 kornlest, farmrúm í skipi, er venjulega talin 22 til 33 tunnur.

1 viðarlest er 4000 pnd.

1 varningslest *(Commerce-Læst)* er að þyngd frá 600 til 5200 pnd.[1], ellegar smávarningur, er rúmast í 80 til 100 teningsfetum. Þannig fara í 1 varningslest 18 tunnur af biki og tjöru, 10 skpnd. af hör, 2 faðmar af 1 álnar löngu brenni (sjá III. 3. g. 1.), 26 tunnur af korni, 18 skpnd. af þurkuðum saltfiski, 15 skpnd. af hörðum fiski; 1 hestur; 16 knippi af umbúðamottu, 10 í hverju; 20 tunnur af salti og steinkolum; 32 strangar af segldúki, 2 í hverjum; 1750 þaksteinar; 80 teningsfet af eikartrjám og 100 teningsfet af furutrjám, plönkum og borðum; 80 heilar og 120 hálfar krukkur af vínberjum.

## 2. Lagarmál.

Undirstaða lagarmálsins er *potturinn,* hann á að vera svo stór, að 32 pottar af hreinu vatni fylli teningsfet; þessir 32 pottar eiga og að vega 62 pnd. (sbr. II. A.).

1 pottur er 2 merkur eða 4 pelar.

1 kanna er 2 pottar.

---

[1]) Það er þó ekki ugglaust, að telja 4000 pnd. í varningslest, eins og sumir hafa gjört; því að jafnframt verður að hafa tillit til rúmsins, sem vörurnar þurfa. Þannig fer miklu minni þungi af fiðri og korktöppum og öðru slíku í lestina, en af járni eða blýi.

1 flaska er 3 pelar.
1 kútur er 8 pottar.
1 anker er 38 pottar[1].
1 áma er 160 pottar.
1 uxahöfuð er 228 pottar (6 anker).
1 pípa er 480 pottar (3 ámur).
1 fat (Fuder) er 4 uxahöfuð.
1 *Stykfad* er 5 uxahöfuð.
1 *Fjerce* er 4 anker.

Öltunnan á að taka 136 potta og vera $4^1/_4$ teningsfet að innanrúmi. Lýsis og tjörutunnan á að taka 120 potta, og hver pottur vegur $1^3/_4$ pnd., og eins 1 pottur af olíu.

## 3. Lengdarmál.

### *a)* Álna og feta mál.

1 fet er 12 þumlungar, 1 þumlungur er 12 línur.
1 alin er 2 fet, eða 24 þumlungar, eða 288 línur.
1 alin er og 4 kvartil, 1 kvartil er 6 þumlungar.
1 faðmur er 3 álnir.
1 mæliskapt *(Rode)* er 12 fet, eða 6 álnir.

### *b)* Landamál.

1 fet er 10 þumlungar, 1 þuml. er 10 línur.
1 mæliskapt *(Rode)* er 10 fet.
1 míla dönsk er 12000 álnir danskar; $14^{756}/_{1000}$ dansk. míl. eru 1 mælistig af miðjarðarlínunni.

---

[1]) Þannig reikna Danir venjulega ankerið, en þó er það og opt talið 40 pottar, og samsvarar það þá nákvæmlega lagartunnu (lýsis- og tjörutunnu) stærðinni, sem eiga að taka 120 potta. Eptir því verða og rjettir 15 kútar í hvorri 120 potta tunnu. En eiginlega eiga að vera 39 pottar í ankeri, samkvæmt tilskip. dags. 10. jan. 1698.

1 vika sjávar er 11821 alin dönsk; $14^{979}/_{1000}$ dansk. viku sjávar eru 1 mælistig af miðjarðarlínunni.

1 þingmannaleið er 5 mílur danskar.

*c)* Flatamál.

1 ▭ faðmur (ferhyrndur faðmur) er 9 ▭ álnir.
1 ▭ alin er 4 ▭ fet.
1 ▭ fet er 144 ▭ þumlungar.
1 ▭ þuml. er 144 ▭ línur.

*d)* Hringmál.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1 hringur | er | $360^{0}$ | (mælistig). |
| $1^{0}$ | — | $60'$ | (mínútur). |
| $1'$ | — | $60''$ | (sekúndur). |
| $1''$ | — | $60'''$ | (tertsíur). |
| $1'''$ | — | $60''''$ | (kvartar), |
| $1''''$ | — | $60^{v}$ | (kvintar. |
| $1^{v}$ | — | $60^{vi}$ | (sextar). |

T. a. m. $24^{0}$, $18'$, $56''$, $46'''$, $8''''$, $28^{v}$, $37^{vi}$, (les: 24 mælistig, 18 mínútur, 56 sekúndur, 46 tertsíur, 8 kvartar, 28 kvintar og 37 sextar.

Hnattstaða Reykjavíkur er $64^{0}$, $8'$, $40''$ norðlægrar breiddar, og $34^{0}$, $35'$, $0''$ fyrir vestan Kaupmannahöfn.

*e)* Jarðamál í Danmörk *(Hartkorns-Maal).*

1 tunna er 8 skeppur; 1 skeppa er 4 fjórðungsker; 1 fjórðk. er 3 tólftungar skeppu *(Album).*

(1 tunnuland er í landamælingum 14000 ▭ álnir; en jarðyrkjumenn telja 1 tunnu rúgekru ekki nema 11000, byggekru 10000 og hafra-ekru 8000 ▭ álnir).

*f)* Vallar og engjamál.

1 vikuverk er 6 daga sláttur (eyrisvellir, teigir).

1 kýrvöllur er 3 dagsláttur.

(Dagslátta í túni er ferskeyttur völlur, 30 faðmar á hvern veg, eða 900 ▭ faðmar, eða 8100 ▭ álnir. Engjadagslátta er ferskeytt engi, sem sje 40 faðmar á hvern veg; hún er því 1600 ▭ faðmar, eða 14400 ▭ álnir, nokkuð stærri en 1 tunnu land).

*g)* Mál á innanrúmi eða líkamsstærð (eptir teningsmáli).

1. Brenni.

1 teningsfaðmur (brennifaðmur) er 9 teningsálnir.

1 teningsalin er 8 teningsfet.

1 teningsfet er 8 teningskvartil.

(Brennifaðmur er brennihlaði, hlaðinn úr álnarlöngum brennikubbum, hann er faðmur á hæð og faðmur á lengd).

2. Tígulsteinn.

1 faðmur er 27 álnir.

1 alin er 8 fet.

1 fet er 8 kvartil.

(Hjer er faðmurinn öldungis teningsmyndaður, og þess vegna jafn á alla vegu, lengd, breidd og hæð; hann er því 3 sinnum eins stór og brennifaðmurinn).

3. Hey.

1 málfaðmur, eða mælihlass, heys er eptir Búalögum að rjettu lagi 3 álnir á hvern veg, hæð, lengd og breidd; hann er því jafnstór og faðmur af tígulsteini. Í málfaðmi eiga að vera eptir Búalögum 7 málbandshestar, eða 14 sextán fjórðunga baggar, eða 28 vættir.

*h)* Tímatal.

1 öld er 100 ár.

1 tugur ára er 10 ár.

1 ár er 2 missiri.

1 hlaupár er 366 dagar.

1 almennt ár er 13 vikumánuðir, 12 almanaksmánuðir, 52 vikur og 1 dagur, eða 365 dagar. Þá eru í árinu 12 þrítugnættir mánuðir og 5 dagar betur.

1 jafndægra-ár *(tropisk Solaar)* er 365 dagar, 5 stundir, 48 mínútur og 55 sekúndur.

1 tunglár (12 tungl) er 354 dagar, 8 stundir, 38 mínútur og 36 sekúndur.

1 vikumánuður er 4 vikur.

1 almanaksmánuður er ýmist 30 eða 31 dagur, en í febrúarmán. eru venjulega ekki nema 28 dagar.

1 vika er 7 dagar.

1 dagur er 2 dægur, 8 eyktir, eða 24 stundir.

1 eykt er 3 stundir.

1 stund er 4 fjórðungar stundar eða 60 mínútur.

1 fjórðungur stundar er 15 mínútur.

1 mínúta er 60 sekúndur.

(Athugas. Fjórða hvert ár er hlaupár, eða þegar ártalinu verður deilt með 4; þó eru þau aldamótaár, þegar aldatölunni verður ekki deilt með 4, almenn ár; á 400 árum eru því ekki nema 97 hlaupár. Á hlaupárum eru í febrúarmán. 29 dagar, og hlaupdeginum er skotið inn 24. dag mánaðarins. Dagurinn byrjar á miðnætti. Kirkjuárið byrjar 1 sunnudag í jólaföstu, en hið almenna ár 1. dag janúarmán. Dagur er lengstur um sumar-sólhvörf, 21. d. júnímán., styztur um vetrar-sólhvörf, 21. d. desembermán. Dagur og nótt eru jafnlöng á jafndægrum 21. marzm. og 21. septemberm. Sólhvörf og jafndægur eru ekki ætíð 21. í þessum mánuðum, heldur frá 20.—22.).

## *B.* Önnur ríki.

### 1. *Norvegur.*

Mál er þar, eins og vigtin, líkt því sem er í Danmörku.

1 lest, farmrúm í skipi, er 70 vogir af hörðum fiski. 1 vog er 3 bismer-pund (sbr. II. B. 1). 1 viðarlest er $64\frac{1}{2}$ teningsfet, en varningslest $83\frac{7}{8}$ teningsfet.

### 2. *Svíþjóð.*

#### *a)* Vörur.

1 korntunna er 2 *spannar* (hálftunnur).

1 *spann* er 2 *hálfspannar.*

1 *hálfspann* er 2 fjórðungsker.

1 fjórðungsker er 4 *kappar.*

1 korntunna er því 32 *kappar,* eða 56 *kannar* (könnur), eða 112 *stoop,* eða 448 *quarter,* eða 1792 *ort.*

(Korntunna er að innanmáli $5\frac{3}{5}$ teningsfet sænsk. Á kornmáli (fyrir hveiti, rúg, bygg, hafra, baunir og steinkol) eru 4 kúfstroknir *kappar* lagðir ofan á mælda korntunnu, eða $\frac{1}{8}$ tunnu (1 skeppa), á malttunnu er viðbótin 6 *kappar,* á salttunnu og kalktunnu 2 *kappar.* Sænsk korntunna er þeim mun stærri en dönsk, að 27 sænskar tunnur samgilda 32 dönskum; en aptur samgilda 71 kolatunna sænsk 65 dönskum tunnum. Mál það, sem mjöl, jarðarávextir, saltað kjöt, fiskur, lýsi, tjara, bik og nokkrar litartegundir eru mældar í, tekur að eins 48 kannar).

#### *b)* Lagarmál.

1 *foder* er 2 *pipar,* 1 pipa er 2 *oxhufvuder* (uxah.).

1 uxahöfuð er $1\frac{1}{2}$ áma.

1 áma er 2 *ambar* (4 anker).

1 *amba* er 2 anker.

1 anker er 15 könnur.

1 kanna er 2 *stoop*.

(Áma að sænsku lagarmáli er þeim mun stærri en dönsk, að í henni eru 168 pottar danskir, en í danskri ámu 160 pottar. Öltunnumál hjá Svíum er og haft fyrir mjöl, kjöt og fiskmál; öltunnan er 48 könnur, eða 96 *stoop*, eða 384 *quarter*, eða 1536 jómfrúr; 23 öltunnur sænskar, eru jafnar 22 öltunnum dönskum, og 31 *stoop* sænsk jöfn 42 pottum dönskum, eða 1 *stoop* er hjer um bil 5½ peli að dönsku máli. Tjörukagginn getur verið 1 *stoop* minni en öltunna; hann ætti eptir því að taka 129 potta danska, en hann tekur ekki meira en 120 potta og stundum ekki meira en 112 potta af tjörunni frá *Kalmar*).

*c)* Lengdarmál.

1 míla sænsk er 36000 fet sænsk.

2 fet sænsk eru 1 alin.

(37 fet sænsk eru jafnlöng 35 fetum dönskum, en 12 mílur sænskar jafnar 17 dönskum).

3. *Prússaveldi.*

*a)* Kornmál.

1 *Scheffel* er 16 *Metzen*.

(1 *Scheffel* er 1$^7/_9$ teningsfet að innanrúmi; 81 *Scheffel* eru því 32 korntunnur danskar, og 81 *Metzen* eru 64 fjórðungsk., eða 2 tunnur. Tunnumál það, er salt, kalk, gyps, steinkol og viðarkol eru mæld í, tekur 4 *Scheffel*, og er því að innanrúmi 7$^1/_9$ teningsfet. Eru því 99 slík mæliker (tunnur) jöfn 128 kolatunnum dönskum).

*b)* Lagarmál.

Lagarmálið er *Quart*, er tekur ⅓ *Metze*, það er

þeim mun stærra en pottur, að 27 *Quart* eru nákvæmlega mældir 32 pottar danskir. Vínmálið er uxahöfuð; 1 uxahöfuð er 3 *Eimer* (ámur); 1 *Eimer* er 60 *Quart*, eða 2 anker; hvert anker er því $35^5/_9$ pottar danskir. 1 öltunna er 100 *Quart*, og því nákvæmlega mæld $118^1/_2$ pottur að dönsku máli.

*c)* Lengdarmál.

Prússneskt fet er jafnt dönsku feti (það er almennt kallað rínlenzkt fet).

Prússnesk alin er þeim mun lengri en dönsk alin, að 16 prússn. álnir eru 17 danskar; er þá prússn. alin $25^1/_2$ þumlungur danskur.

### 4. *Þýzkaland.*

Fetið er þar hið rínlenzka eða danska fet; vigt og mál eru þar því eins og í Danmörku (sbr. II. B 4.).

### 5. *England.*

*a)* Kornmál.

*Imperial-quarter* er liðugt helmingi stærri en korntunna dönsk, eða 11 *quarters* eru 23 korntunnur danskar.

1 *last* (lest) er 2 *weys* eða *tons*.

1 *ton* er 5 *quarters*. (Lestin er því hartnær 21 tunna dönsk).

1 *quarter* er 2 *coombs*.

1 *coomb* er 4 *bushels*.

1 *bushel* er 4 *pechs*.

1 *pech* er 2 *gallons*.

1 *gallon* er 2 *pottles*, 4 *quarts*, 8 *pints*, eða 32 *gills (dsjills)*.

1 *boll* er 6 *bushels*.

(*Gallon* tekur $4^2/_3$ potta danska, eða nákvæmara: 27 *gallons* eru 127 pottar danskir; *gallon* er einkanlega haft fyrir lagarmál).

*b)* Kolamál.

Samkvæmt tilsk. 1834 eru *kol* á Englandi einungis seld eptir vigt, síðan 1. d. jan. 1836, í *tons*.

*c)* Lagarmál.

Öl er mælt í *tun*. 1 tun er 2 *butts*, 2 *pipes*, 4 *hogsheads*, 6 *barrels*, 12 *kilderkins*, eða *rundlets*, 24 *firkins*.

1 *firkin* er 9 *gallons*.

1 *barrel* tekur því 36 *gallons*, eða $169^1/_3$ potts.

Vínmál og brennivínsmál er *tun*.

1 *tun* er 2 *pipes* eða 2 *butts*, 3 *puncheons*, 4 *hogsheads* (uxahöfuð), 6 *tierces*, 8 *barrels*, 14 *rundlets* eða 252 *gallons*.

*d)* Lengdarmál.

Fetið er nokkru styttra en danska fetið, svo að 69 fet ensk eru 67 fet dönsk eða rínlenzk,

1 míla ensk er 8 *furlongs* (förrl.).

1 *furlong* er 40 *perches* (pertsches).

1 *perche* er $5^1/_2$ *yards* (alin).

1 *yard* er 3 fet, og eru því 46 *yards* 67 álnir danskar, og ensk míla er 5127 fet dönsk, svo að 19 mílur enskar eru hjer um bil 4 danskar.

1 *fathom* (faðom, faðmur), er 2 *yards*.

1 fet er $1^1/_3$ spönn, 3 *hands*, 4 *palmes*, eða 13 *inches* (intches, þumlungar).

6 *Frakkland*,

*a)* Kornmál.

100 *litres* (sjá III. B. 6. b), eða 1 *hectoliter*, er haft

fyrir kornmál; 32 *hectolitres* eru jafnir 23 korntunnum dönskum. 1 *metre* teningsmyndaður er brennimál, sem tekur $32^{7}/_{20}$ teningsfet dönsk.

*b)* Lagarmál.

Teningur, sem er $^{1}/_{10}$ úr 1 *metre* á hvern veg, heitir *litre*, hann tekur liðugan pott danskan, eða 57 *litres* eru 59 pottar.

Vigt og mál Frakka er mjög þægilegt í reikningi, þar eð ávallt hleypur á tugum, og er þessi aðferð nýkomin á fót; ýmsar aðrar þjóðir eru og farnar að reyna til, að koma þessari vigt og máli á hjá sjer. Enn helzt þó við á Frakklandi ýmislegt úr hinni eldri vigt og máli, t. a. m. Parísar-markpund *(livre poids de marc)*, sem er mjög litlu ljettara en danskt pund; það skiptist í 16 únsíur.

Til eldra málsins heyrir Parísarfetið, *pied du roi* (pje du roa), sem eru 6 í 1 *toise* (toas) eða faðmi; Parísarfetið er litlu stærra en danskt fet.

Vínmálið er *muid* (mui), er tekur 864 *pintes* (pengt); 1 *pinte* er litlu minni en pottur danskur.

*c)* Lengdarmál.

1 *metre* er $443^{3}/_{10}$ Parísarlínur, eða $3^{3}/_{16}$ fet dönsk; 16 *metres* eru því 51 fet dönsk. Minna lengdarmál kemur fram, við það að deila með 10, og eru nöfnin á því mynduð með því að bæta framan við latínsku orðunum: *deci, centi, milli,* er þýða þá: tíundu, hundruðustu og þúsundustu parta. 1 *metre* er þannig 10 *decimetres,* 100 *centimetres,* 1000 *millimetres.* 1 *millimetre* er ekki full $^{1}/_{2}$ lína að dönsku máli. Lengra mál en *metre* myndast á sama hátt með grísku orðunum: *deka, hekto, kilo, myria* (10, 100, 1000, 10000). Þannig eru 10 *metres* 1 *dekametre,* 100 *metres* 1 *hektometre*

o. s. frv. 10000 *metres*, eða *myriametre*, er haft sem vegamál (míla), og er hjer um bil $1 \frac{1}{3}$ að dönsku mílumáli, eða nákvæmara: 64 *myriametres* eru 85 mílur danskar.

### 7. *Holland.*

#### *a)* Kornmál.

(Alls konar mál á Hollandi er hið sama og á Frakklandi, en gefin eru því þar önnur nöfn).

Þegar *litre* er haft fyrir kornmál, heitir það *kopp*.

100 *kopp*, eða 1 *hektolitre*, heitir *Zak* (sekkur) eða *mudde (rasière)*. Lest er 30 *mudder*, er því hollenzk lest hjer um bil $21 \frac{1}{2}$ korntunnur danskar, eða mjög lítið minna en kornlest dönsk.

#### *b)* Lagarmál.

Þegar *litre* er haft um lagarmál heitir það *kan* (kanna).

1 *kan* er 10 *maatjes*.

1 *maatje* er 10 *vingerhoed*.

100 *kan* heitir *vat* og er jafnt 1 *hektolitre*.

#### *c)* Lengdarmál.

*Metre* kallast *elle* (alin).

*Decimetre* kallast *palm*.

*Centimetre* — — *duim*.

*Millimetre* — — *streep*.

1000 *metres*, eða *kilometre*, kallast *myl*.

(Eldra mál og vigt er einnig til í Hollandi, og er það nokkuð öðruvísi og ýmislegt innbyrðis í borgunum sjálfum).

### 8. *Belgía.*

Þar er málið, eins og peningar og vigt, orðið að

mestu eins og á Frakklandi, þó eymir þar enn nokkuð eptir af málinu og vigtinni fornu.

### 9. *Spán.*

#### *a)* Kornmál.

1 *cahiz* er 12 *fanegas.*

1 *fanega* er 12 *almudes,* eða *celemines.*

1 *almude* er 4 *quartillos.*

33 *fanegas* eru 13 korntunnur danskar.

1 Saltlest er 4 *cahiz;* eru þá 33 lestir spænskar jafnar 52 lestum dönskum, þeirra er 12 tunnur eru í hverri.

#### *b)* Lagarmál.

Vínmálið er *cantara,* eða *arroba major,* er tekur liðuga 16 potta danska.

Mæliker það, er olía er mæld í, heitir og *arroba,* en það er minna mál, og tekur ekki meir en 13⅛ pott danskan.

#### *c)* Lengdarmál.

1 *pie* (fet) er 1⅓ *palmos,* 12 *pulgadas* (þumlungar), 16 *dedes,* eða 144 líneas. 79 fet spænsk eru jöfn 70 dönskum.

3 *pies* eru 1 Kastilíu-*vara,* eða alin.

1 *braza, estado,* eða *toesa* (faðmur), er 2 *varas,* eða 6 *pies.*

### 10. *Portúgal.*

#### *a)* Kornmál.

Mæliker það, er korn er í mælt, er *mojo,* sem tekur 15 *fangas.*

1 *fanga* er 4 *alqueiras.*

18 *fangas* í Portúgal eru jafnar 7 korntunnum dönskum.

1 *alqueira* í Oporto má reikna $^1/_3$ af *fanga*, og því lítið meiri en 1 skeppu að dönsku máli.

Salt er mælt í Lissabon með sama *mojo*, og er það því $5^5/_6$ tunnu að dönsku máli.

1 *milheiro* í Oporto er látið vera 336 *razas*, hver *raza* er 2222 teningsþumlungar að Parísarmáli, og því hjer um bil $106^1/_2$ tunna dönsk.

### *b)* Lagarmál.

1 *tonelada* er 2 *pipas*, eða *botas*.

1 *pipa* er 26 *almudas*.

1 *almuda* er 2 *alqueiras*, eða *potas*.

1 *alqueira* er 6 *canhadas*.

1 *canhada* er 4 *quartilhos*.

1 *pipa* í Lissabon tekur ríflega 450 potta danska, en í Oporto 459 potta danska.

### *c)* Lengdarmál.

1 *vara* er $1^1/_5$ ensk *yard;* 4 *varas* eru því jafnar 7 álnum dönskum.

1 *covado* er og alin við smáverzlun, og er hún jöfn 3 *palmos de Craveiros*.

1 fet að húsagerðar-máli er jafnt $^1/_2$ *covado;* 25 slík fet eru jöfn 27 dönskum.

Styttra *covado* er og til, sem er jafnt 2 fetum almennum, eða 3 *palmos* almennum; það mál er því litlum mun lengra en dönsk alin.

## 11. *Rússland.*

### *a)* Kornmál.

1 *tschetwert* er 8 *tschetwerik*.

1 *tschetwert* er 2 *osmin*.

1 *osmin* er 2 *pajok*.

1 *pajok* er 16 *garnitz*.

2 tschetwert eru hjer um bil 3 korntunnur danskar, eða nákvæmara 57 tschetwert eru 86 tunnur danskar.

Í Kúrlandi og Líflandi er kornmálið tunna, er skiptist i 2 *loof*. Tunnan er hjer um bil eins og korntunna dönsk, þó heldur minni, því að 50 tunnur danskar eru 101 *loof*, eða $50\frac{1}{2}$ tunna.

### *b)* Lagarmál.

*Sarakowoja botschka* er 40 *wedro*, eða $13\frac{1}{3}$ anker.

1 *wedro* (aðalmælikerið) er 10 *kruschka*, eða *stoof*.

$\frac{3}{4}$ *stoof* er 1 flaska.

11 *kruschka* eru 14 pottar.

### *c)* Lengdarmál.

1 *saschehn* (faðmur) er 3 *arschin*, eða 7 fet ensk.

1 *arschin* er 28 þumlungar, eða 16 *werschock*. 15 *arschin* eru 17 álnir danskar, en 10 *werschock* eru 17 þuml. danskir.

Á Kúrlandi og Líflandi er bæði mælt eptir rínlenzku feti, og einnig eptir sjer eiginlegu feti og alin, sem er 2 fet. Kúrlenzka alinin er þeim mun styttri en hin danska að hjer um bil 7 Kúrl. álnir eru 6 danskar.

## 12. *Bandaríkin í vesturálfu.*

Málið er þar, eins og vigtin, hið sama og á Englandi.

## IV. *Talin vara.*

*a)* Kálhöfuð, síld, egg, saumur, tígulsteinn og þaksteinn, heyhestar, o. s. frv.

1 *Skok* er 3 *Snese*, eða 60 einingar.

1 *Oel* er 4 *Snese*, eða 80 einingar.

1 hundrað smátt er 5 *Snese*, eða 10 tugir, eða 100 einingar.

1 hundrað stórt er (6 *Snese*), 10 tylftir, eða 12 tugir, eða 120 einingar.

1 þúsund er 1000 einingar.

1 þúsund stórt er 10 hundruð stór, eða 1200 einingar.

1 *Snees* er 20 einingar.

1 *Trave* er 20 *Neg*, eða einingar.

1 tugur er 10 einingar.

*b)* Hnappar, skinn, viður, o. s. frv.

1 stórtylft (tylftatylft, *Gros*) er 12 tylftir (*Dusin*), eða 144 einingar.

1 tylft er 12 einingar.

1 *Zimmer* er 4 *Degger*, eða 40 einingar.

1 *Degger* er 10 einingar (skinn).

1 tylft (*Tylt*) er 12 einingar (borð).

(Í viðarkaupum er talið eptir *Ring*, sem er 240 *Staver*, þó er og talið eptir hundruðum og stórum þúsundum (stórþúsundum). Siglutrje og sívöl trje eru seld eptir *Palmer*, og eru 3 *Palmer*[1] 10 þumlungar og 2 línur. Eikarplankar eru seldir eptir *kravel*. Þegar plankinn er:

| | | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 8½ | fet | á | lengd, | á | hann | að | vera | 5 | þuml. | á | þykkt |
| 9 | — | - | — | - | — | -- | — | 4½ | — | - | — |
| 10 | — | - | — | - | — | -- | — | 4 | — | - | — |
| 12 | — | - | — | - | — | -- | — | 3½ | — | - | — |

[1]) 46 Palmer eru jafnar 13 fetum dönskum.

15 fet á lengd, á hann að vera 3 þuml. á þykkt
24 — - — - — — — $2\frac{1}{2}$ — - — )

*c)* Pappír.

1 *Balle* er 10 hrís *(Riis)*.

1 hrís er 20 bækur.

1 bók er 24 arkir af skrifpappír, en 25 arkir af prentpappír.

---

7. gr.

Um þýðingu margs konar talna.

Margs konar tölur kallast þær tölur, sem hafa ákveðna þýðingu auk þeirrar, sem í þeim sjálfum liggur, sem tölum.

Reikningur margs konar talna er auðveldur, þegar búið er að nema 4 reiknings-tegundir eins konar talna, og tekið er eptir, hversu margar einingar af lægri tegund eru í einni einingu af hærri tegund, og er þá ekki önnur reglan, en deila þeirri tölu, sem út kemur af samanlagðri, eða margfaldaðri, tölu hinnar lægri tegundar, með þeirri tölu, sem felst í hverri einingu hærri tegundar. T. a. m. ef jeg á að gjöra 64 ß að mörkum, þá deili jeg 64 með 16; því að 16 einingar af lægri tegundinni (nl. skildingunum) eru í hverri einingu hærri tegundar (nefnil. mörkunum), og verða það þá 4 ℳ. Á líkan hátt má gjöra 85 lóð að pundum, með því að deila 85 með 32 (af því að svo eru mörg lóð í pundi): Kvótinn (2 ℔) eru 2 einingar af hærri tegundinni, en afgangurinn (21 lóð) eru svo margir tugir og einingar af hinni lægri. Einnig má gjöra hærri tegund að lægri tegundum, með því að margfalda með þeirri tölu, sem felur í sjer jafnmargar einingar, og

32) 85 (2 ℔
64
21 lóð.

hver eining hærri tegundarinnar gjörir, til að mynda, ef gjöra skal 15 rdl. að mörkum, skal margfalda þá með 6: 15 $\times$ 6 = 90 ℔ (því að hver ríkisdalur felur í sjer 6 einingar marka).

## 8. gr.
## Samlagning.

Þegar leggja skal saman margs konar tölur, er athugandi, að samkyns-tölur, eða tölutegundir, skrifist hver undir aðra, sú fyrst, eða næst vinstri hendi, sem hæst er, o. s. frv. og hin lægsta síðast, eða næst hægri hendi. Byrjar þá samlagningin á lægstu tölunum, eða tegundunum, til hægri handar; fáist þá 1 heill, eða fleiri heilir, af þeirri tegund, sem næst er fyrir framan, með deilingu, er honum bætt við hærri tegundina, eða hann er geymdur, þangað til farið er að leggja saman þá tegundina; en afgangurinn er settur undir sömu tegund, sem í var deilt, eða saman var lögð. Eins skal fara með aðra röðina, og hinar, ef fleiri eru.

1.

| | | |
|---|---|---|
| 3 rdl. | 4 ℔ | 8 β |
| 5 -- | 2 - | 3 - |
| 8 -- | 3 - | 15 - |
| 4 -- | 5 - | 12 - |
| 22 -- | 4 - | 6 - |

Hjer er β deilt með 16, sem er 1 ℔, og ℔ aptur með 6, sem er 1 rdl.

2.

| | | |
|---|---|---|
| 4 vættir | 1 fjórð. | 5 merkur. |
| 6 — | 5 — | 13 — |
| 9 — | 7 — | 16 — |
| 5 — | 6 — | 15 — |
| 8 — | 4 — | 19 — |
| 3 — | 2 — | 7 — |
| 7 — | 3 — | 11 — |
| 12 — | 5 — | 17 — |
| 58 — | 6 — | 3 — |

Hjer er mörkum deilt með 20, sem er 1 fjórðungur, en fjórðungum með 8, sem er 1 vætt.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 3. | 493 rdl. | 54 β |
| | 69 — | 74 - |
| | 70 — | 13 - |
| | 180 — | 92 - |
| | 814 — | 41 - |

Hjer er skildingafjöldanum deilt með 96 af því 96 skildingar eru í hverjum ríkisdal.

4. 1336 ámur, 2 anker, 4 kútar, 7 pottar + 21 áma, 1 anker, 4 kútar, 3 pottar + 104 ámur, „ anker, 3 kútar, 5 pottar + 13 ámur, 1 anker, „ kútur, 2 pottar + 16 ámur, 2 anker, 1 kútur, 6 pottar. = 1492 ámur, „ anker, 2 kútar, og 7 pottar.

5. 341 sk℔, 5 l℔, 6 ℔, 5 lóð, 2 kvint. + 974 sk℔, 3 l℔, 4 ℔, 5 lóð, 3 kvint. + 84136 sk℔, 13 l℔, 12 ℔, 16 lóð, 1 kvint. + 80 sk℔, 1 l℔, 4 ℔, 2 kvint. = 85532 sk℔, 3 l℔, 10 ℔, 28 lóð.

9. gr.

Frádragning.

Sama aðferð er höfð, þegar draga skal frá í reikningi margs konar talna, eins og við frádragningu eins konar talna, með þeim mismun einungis, að þegar lána þarf, merkir hinn eini, sem lánaður er hjá næstu tegund fyrir framan, ekki 1 tug hennar, heldur svo margar einingar hinnar lægri tegundar, sem felast í hverri einingu af hinni hærri; t. a. m. ef 1 er lánaður hjá mörkum, eru það 16 β, og ef 1 er lánaður hjá ríkisdölum, eru það 6 ℳ.

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 6. | 6 l℔ 3 ℔ 8 lóð | | 7. | 824 rdl. | 3 ℳ | 8 β |
| | 4 - 12 - 6 — | | | 759 — | 4 - | 12 - |
| | 1 - 7 - 2 — | | | 64 — | 4 - | 12 - |

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 8. | 6 c/ | 106 fisk. | | 9. | 3 c/ | 25 ál. | |
| | 3 - | 118 — | | | 2 - | 48 - | |
| | 2 - | 108 — | | | „ - | 97 - | |

| | | | |
|---|---|---|---|
| 10. | 12 sk℔ | „ l℔ | 3 ℔ |
| | 8 — | 5 - | 9 - |
| | 3 — | 14 - | 10 - |

Aðferðin er hin sama, þegar til láns er tekið, þó engin tala sje í því sæti, sem aðra tölu á frá að draga; sbr. 10. dæmi.

### 10. gr.
### Margföldun.

Þegar margfalda skal margs konar tölur, verður margfaldari að vera eins konar tala, því að hann sýnir einungis, hversu opt margfalda skuli hverja tegund. Margföldun byrjar, frá hægri til vinstri handar, á hinni lægstu tölutegund. Verði þá, þegar hver tegund er þannig margfölduð, úr pródúktinu 1 heill, eða fleiri, af hinni næstu hærri tegund, legst það við hina næstu töluröð, eða sæti, en afgangurinn er skrifaður undir þá tölu, sem honum er samkynja. Deiling er höfð til að finna, hversu margir af hærri tegundinni felast í pródúkti lægri tegundar, eins og áður er sagt (8. gr.).

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| 11. | 12 rdl. | 5 ℳ | 12 β | 12. | 9 c/ | 105 áln. |
| | | | 7 | | | 5 |
| | 90 — | 4 — | 4 - | | 49 — | 45 — |

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 13. | 7 vætt. | 6 fjórð. | 17 merk. | 14. | 12 skp. | 15 lpd. | 9 pd. |
| | | | 7 | | | | 6 |
| | 54 — | 7 — | 19 — | | 76 — | 13 — | 6 — |

Ef fleiri tölustafir eru í margfaldara en einn, má dreifa honum í gjörendur þannig:

15. a) 5rdl. 5mk. 5sk. × 16 =

| 5rdl. 5mk. 5sk. | 8 × 2. |
|---|---|
| 8 | (annar gjörand. í 16) |
| 47 — „ — 8 - | |
| 2 | (hinn gjörand. í 16) |
| 94 — 1 — „ - | |

15. b) 5rdl. 5mk. 5sk. × 16 =

| 5rdl. 5mk. 5sk. | 4 × 4. |
|---|---|
| 4 | |
| 23 — 3 — 4 - | |
| 4 | |
| 94 — 1 — „ - | |

Í þessu dæmi stenzt rjett á í dreifingunni; því að 8 × 2 = 16, og eins 4 × 4 = 16. En það er ekki ætíð svo, heldur gengur ýmist af, eða vantar til, ber það optast við í þeim tölum, sem stakar eru (oddatölum). Ef til vantar, svo við þurfi að bæta, er margfaldandi margfaldaður með viðbætinum, og það pródúkt er lagt saman við pródúkt síðara (eða síðasta) gjörandans (sbr. 16. a). Gangi aptur á móti af, er pródúkt tölunnar, sem ofaukið er, og margfaldanda, dregið frá síðara (síðasta) pródúktinu (sbr. 16. b).

16. *a)* 18 rdl. 5 mrk. 12 sk. × 37 = 6 × 6 + 1.

| | |
|---|---|
| 18rdl. 5mk. 12sk. | Hjer vantaði 1 til, því að 6 × 6 eru ekki nema 36, og því er margfaldanda, margföld- uðum með 1 (sem á vantar) bætt við síðara pródúktið. |
| 6 | |
| 113 — 4 — 8 - | |
| 6 | |
| 682 — 3 — „ - | |
| 18 — 5 — 12 - | |
| 701 — 2 — 12 - | |

16. *b)* 18rdl. 5mk. 12sk. × 37 = 8 × 5 − 3.

| | |
|---|---|
| 18rdl. 5mk. 12sk. | Hjer var 3 of aukið, því að 8 × 5 eru 40; þess vegna er margfaldandi margfaldaður með 3, og það pródúkt dregið frá 758 rdl. 2 mrk. |
| 8 | |
| 151 — 4 — „ - | |
| 5 | |
| 758 — 2 — „ - | |
| 56 — 5 — 4 - | |
| 701 — 2 — 12 - | |

## 11. gr.

### Deiling.

Þegar deila skal margs konar tölum með eins konar deili (því að svo á hann að vera, en ekki margskonar tala), verður að byrja á hæstu tegund, og ef þá verður afgangur, er hann gjörður samkynja lægri tegundinni og lagður við hana; verði nú aptur afgangur af henni, er honum breytt í líki næstu (lægri) tegundar og lagður við hana.

17. 20 ℔ 9 lóð 2 kvintin: 3.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 3) 20 ℔ | 9 lóð | 2 kvintin | |
| 6 - | 24 — | 2 — | — |

Hjer er sagt: 3 í 20 = 6, þ. e. 6 pnd., gánga af 2℔, sem gjörð eru að lóðum, með því að margfalda þau með 32, það verða 64 lóð, + 9 lóð = 73 lóð; 3 í 73 = 24 lóð, gengur þá af 1 lóð, sem gjört er að kvint., með því að margfalda það með 4, + 2 kvint. = 6; 3 í 6 = 2 kvintin.

18. 79 rdl. 4 mk. 12 sk.: 35 =

| | | | |
|---|---|---|---|
| 5) 79 rdl. | 4 mk. | 12 sk. | |
| 7) 15 — | 5 — | 12 - | |
| 2 — | 1 — | $10^6/_7$ - | |

Dreifingu verður ekki við komið (eins og í 18. dæmi) í deilingunni, nema þar sem allir gjörendurnir ganga upp í deilinum; því að hvorki verður þar við höfð aukning nje afnám.

Ef hæsta tölutegund er minni en svo, að henni verði deilt með deilinum, er hún margfölduð og þannig gjörð að lægri tegund, og verður hún þá stærri, að því leyti sem hún hefur fleiri smærri parta, en er þó í sjálfri sjer jöfn; t. a. m.: ef skipta skal 3 vættum 7 fjórðungum og 13 mörkum í 12 staði, verður fyrst að gjöra 3 vættir að fjórðungum, með því að margfalda þær með 8, og bæta svo 7 við, sem eru í næsta sæti, og verður það 31 fjórð.; 12 í 31 = 2, þ. e. 2 fjórð. Á líkan hátt er farið með afganginn af 31, eða 7 fjórð, að þeir eru gjörðir að mörkum, og er svo 13 bætt við, áður en þeirri tegund er skipt.

Þar eð stórhundruð (þ. e. 120), sem svo eru kölluð, tíðkast enn bæði í hundraðareikningi á jörðum og ýmsum landaurum, og maður verður stundum að fá þau út úr mörgum smáhundruðum, þá er reglan að deila smáhundruðunum með 120; það sem í kvótann kemur, verða þá stórhundruð, en afgangurinn álnir. Eigi að gjöra fiska af hundruðum á landsvísu, verður fyrst að gjöra fiskana að álnum, með því að deila tölunni með 2, og því, sem þá kemur í kvótannn, aptur með 120.

19. 120) 1265 áln. (10 ℭ 65 álnir
1200
65 áln. (afgangur).

Stórhundruð má gjöra að smáhundruðum, með því að bæta eins opt 20 við smáhundraða-töluna, og stórhundruðin eru mörg.

Skildinga má gjöra að ríkisdölum með hægri aðferð en deila allri skildingatölunni með 96, en það er með því að stryka tvo tölustafi aptan af skildingatölunni, og margfalda síðan tölustafina, sem eru fyrir framan, eða vinstra megin við strykið, með 4; því að hvert hundrað er 4 sk. meira en 1 rdl., eða 96 sk. Er þá fyrsti tölustafurinn í pródúktinu settur undir einingastaf skildinganna, hægra megin við strykið, og pródúktið svo látið ganga fram eptir, til vinstri handar, og fram fyrir strykið, ef það fer að nema hundruðum eða þúsundum. Síðan eru að nýju allir stafirnir, sem í pródúktinu eru fyrir framan strykið, margfaldaðir með 4, og þetta nýja pródúkt ritað á sama hátt, sem hið fyrra. Verði hið nýja pródúkt enn svo stórt, að nokkrir stafir í því gangi fram fyrir strykið, þá eru þeir stafir enn margfaldaðir með 4, sem fram fyrir strykið ganga, og pródúktið, sem þá verður, ritað á sama hátt, sem fyr. Þetta gengur einlægt, unz pródúktið verður svo lítið, að enginn stafur í því gengur fram fyrir strykið.

Er þá dregið þverstryk undir öll pródúktin fyrir aptan langstrykið, og þær tölurnar lagðar saman, sem eru fyrir ofan þverstrykið. Sje summan, sem þá kemur, svo stór, að hún nemi hundruðum, svo að verði að setja nokkra stafi hennar fram fyrir strykið, þá eru þeir hinir sömu stafir margfaldaðir með 4, og pródúktið ritað, sem fyr. Ef það pródúkt er enn svo stórt, að nokkrir stafir þess gangi fram fyrir strykið, þá eru þeir aptur margfaldaðir með 4. Þetta gengur einlægt, unz summan fyrir aptan strykið er orðin svo lítil, að enginn stafur hennar nemur hundraði. Er þá aptur dregið þverstryk undir tölustafina fyrir aptan langstrykið, og þeir lagðir saman, sem eru fyrir aptan það og milli þverstrykanna. Verði sú summa, sem þá kemur, enn svo stór, að nokkrir stafir í henni gangi fram fyrir langstrykið, er farið aptur að öllu, eins og sagt var við fyrri summuna. Þessu er fram farið, unz summan, millum tveggja síðustu þverstrykanna fyrir aptan langstrykið, verður svo lítil, að enginn stafur hennar nái fram fyrir langstrykið. Sú summa er skildingafjöldinn í nýju tölunni. Síðan er dregið þverstryk undir allar tölurnar, sem eru fyrir framan langstrykið, og þær lagðar saman; það, sem þá kemur út, er ríkisdala fjöldinn.

| | | |
|---|---|---|
| 20. | 6 | 93 sk. |
| | | 24 - |
| | 1 | 17 - |
| | | 4 - |
| | 7rd | 21 sk. |

Hjer er sagt: $4 \times 6 = 24$, sem lagðir eru saman við 93; en þá kemur út einn hundraða stafur, og er hann settur fyrir framan langstrykið og margfaldaður einnig með 4. Það pródúkt er skrifað undir 17, sem urðu um fram hundraðið við fyrri margföldunina; er þá $17 + 4 = 21$, og er það skildingafjöldinn, en $6 + 1 = 7$ rdl. fyrir framan langstrykið er ríkisdala fjöldinn.

| | |
|---|---|
| 21.9876 | 54 |
| 395 | 04 |
| 15 | 80 |
| | 60 |
| 1 | 98 |
| | 4 |
| 1 | 02 |
| | 4 |
| 10288rd 6 sk. | |

---

## 3. Kapituli.

*Um brot.*

---

### 12. gr.

Eðli brotatalna.

Það kallast brot, þegar einingunni er skipt í jafnstóra parta, og nokkrir af þeim eru tilteknir; brot er því einn eða fleiri af hinum jafnstóru pörtum einingarinnar. Alin skiptist í 4 kvartil, og verður því 1 kvartil, 2 kvartil, 3 kvartil, brot úr alin, og eru þau þannig skrifuð: $^1/_4$ ál., $^2/_4$ ál., $^3/_4$ áln., en lesast svo: einn fjórði hluti, tveir fjórðu hlutir (= hálfalin), þrír fjórðu hlutir álnar. En $^4/_4$ (= fjórir fjórðu hlutir) áln. eru reyndar enginn hluti úr alin, heldur full alin.

Sum brot eiga sjer eiginleg nöfn á vorri tungu, t. a. m.: helmingur, þriðjungur, fjórðungur, fimmtungur, sjöttungur, áttungur.

Brot er skrifað með tveimur tölum, heitir önnur þeirra nefnari, og er hann skrifaður undir lítið þverstryk

(eða skástryk), og tiltekur hann, í hversu marga hluti einingunni er skipt. Hin talan heitir teljari, og er hann skrifaður fyrir ofan strykið, og sýnir, hversu margir af þessum hlutum eru við hafðir, t. a. m.: $^2/_3$ = 2 þriðjungar, $^5/_6$ = 5 sjöttungar.

Eiginlegt brot er það, þegar teljarinn er minni en nefnarinn, og er það því minna en 1 heill, t. a. m.: $^5/_8$, $^{33}/_{37}$.

Ef teljari og nefnari eru jafnstórir, þá er brotið jafnt 1 heilum, t. a. m.: $^1/_1$, $^3/_3$, $^{12}/_{12}$, $^{568}/_{568}$.

Það er óeiginlegt brot, ef teljarinn er stærri en nefnarinn, og má þá opt gjöra brotið að *blandinni tölu*, þ. e. að heilli tölu og broti, með því að deila teljaranum með nefnaranum. Fyrir aptan heilu töluna, sem fram kemur, þegar þannig er deilt, er brotið sett, sem myndast þannig, að afgangurinn af teljara hins óeiginlega brots verður aptur teljari nýja brotsins, og hinn fyrri nefnari nefnari þess.

T. a. m.: $^6/_5 = 1^1/_5$, $^9/_6 = 1^3/_6$, $^{24}/_9 = 2^6/_9$, $^{293}/_{16} = 18^5/_{16}$, $^{335}/_{108} = 3^{11}/_{108}$.

Ef nefnari hins óeiginlega brots gengur upp í teljaranum, svo enginn afgangur verði, þá koma einungis heilir, og verður talan þá eigi blandin.

T. a. m.: $^{24}/_8 = 3$, $^{35}/_7 = 5$, $^{171}/_{19} = 9$, $^{135}/_{27} = 5$.

Blandna tölu má gjöra að óeiginlegu broti, með því að margfalda heilu töluna með nefnaranum, og leggja teljarann við pródúktið; er þá teljari hins óeiginlega brots fenginn, en fyrir nefnara er hafður nefnari fyrra brotsins, t. a. m.: $2^6/_9 = ^{24}/_9$, þ. e. $2 \times 9 = 18$, $+ 6 = 24$, undir þessa 24 er nefnarinn, 9, settur; því að hver um sig af 2 (hinum heilu) er $= ^9/_9$, þá er $2 = ^{18}/_9 + ^6/_9 = ^{24}/_9$.

Brot breytist ekki að gildi fyrir það, þó að bæði sje teljari og nefnari þess margfaldaður, eða báðum sje deilt, með sömu tölu, t. a. m.: $\frac{1 \times 2}{2 \times 2} = \frac{2 \times 3}{4 \times 3} = \frac{6 \times 2}{12 \times 2} = \frac{12 \times 4}{24 \times 4} = \frac{48}{96}$, og $\frac{48 : 2}{96 : 2} = \frac{24 : 3}{48 : 3} = \frac{8 : 4}{16 : 4} = \frac{2 : 2}{4 : 2} = \frac{1}{2}$.

Þess vegna má stytta brot, þ. e. minnka tölurnar, án þess að raska gildi brotsins, með því að deila teljara og nefnara með sömu tölunni.

T. a. m.: $^3/_6 = {}^1/_2$, $^{21}/_{49} = {}^3/_7$, $^{44}/_{77} = {}^4/_7$, $^{24}/_{80} = {}^3/_{10}$, $^{96}/_{128} = {}^3/_4$, $^{384}/_{768} = {}^1/_2$.

Ef teljari og nefnari eru svo stórir, að brotið verði ekki stytt í huganum, er leitað að *stærsta sameiginlegum mæli* fyrir tölurnar í þeim báðum, þ. e. leitað að stærstu tölu, sem gengur upp í teljara og nefnara. En svo er að því farið, að nefnaranum er fyrst deilt með teljaranum, svo er teljarinn, sem í fyrstu deilingunni var hafður fyrir deili, hafður fyrir deilanda í annari deilingunni, en afgangurinn fyrir deilir. Svona er einlægt haldið áfram, þangað til afgangurinn gengur loksins upp í deilandanum, sá afgangur verður stærsti sameiginlegur mælir talnanna í teljara og nefnara. Ef enginn deilir gengur fyr upp en 1 síðast, er það merki þess að tölurnar eiga engan sameiginlegan mæli, og heita þær þá *innbyrðis frumtölur*.

T. a. m.: $\frac{392}{833} =$ 392) 833 ( 2

784

49 ) 392 ( 8

392

0

$$\frac{392}{833} \Big| \frac{8}{17} \quad (49)$$

Í þessu dæmi eru 49 síðasti afgangur og stærsti sameiginlegur mælir fyrir brotið $\frac{392}{833}$. Aptur á móti eiga tölurnar $\frac{862}{1585}$ engan sameiginlegan mæli, nema 1.

```
T. a. m.: 862 ) 1585 ( 1
                862
                ———
                723) 862 ( 1
                     723
                     ———
                     139) 723 ( 5
                          695
                          ———
                           28) 139 ( 4
                               112
                               ———
                                27) 28 ( 1
                                    27
                                    ——
                                     1) 27 ( 27
                                        27
                                        ——
                                         0
```

Þessi brot má minnka, með því að leita að stærsta sameiginlegum mæli:

$\frac{581}{996} = \frac{7}{12}$, $\frac{611}{705} = \frac{13}{15}$, $\frac{1007}{1537} = \frac{19}{29}$, $\frac{11379}{11819} = \frac{51}{53}$, $\frac{1075}{1591} = \frac{25}{37}$.

## 13. gr.

## Samlagning.

### *a)* Brot með jafnstórum nefnurum.

```
          8
         ‿‿
1.  1/8 — 1
    3/8 — 3
    5/8 — 5
    7/8 — 7
   ————————
verða 2  16/8
```

Þegar nefnararnir eru jafnstórir, þarf ekki annað en skrifa upp teljarana og leggja þá saman. Ef summan verður stærri en nefnarinn (8), þá er summunni skipt með honum. Það sem út kemur, eru heilir, og afgangurinn teljari í nýju broti, en nefnari þess er nefnari talnanna. Ef heilar tölur eru með brotunum, þá eru þær eins lagðar saman, og vant er, en bætt við þær því, sem heilt fæst úr brotunum.

2. Úr $^1/_9$, $^4/_9$, $^2/_9$, $^5/_9$ og $^7/_9$ ß verða $2^1/_9$ ß.
3. Úr $5^7/_{16}$, $9^{11}/_{16}$, $3^5/_{16}$, $^{13}/_{16}$ og $13^9/_{16}$ ℔ verða $32^{13}/_{16}$ ℔, eða 2 l℔ $^{13}/_{16}$ ℔.
4. Úr 117 rdl. 3 ℳ $2^7/_{12}$ ß, 19 rdl. „ ℳ $3^5/_{12}$ ß, 320 rdl. 4 ℳ 4 ß, 231 rdl. 5 ℳ $11^1/_{12}$ ß, 3 ℳ $7^7/_{12}$ ß, 24 rdl. 1 ℳ $^{11}/_{12}$ sk. verða 713 rdl. 5 ℳ $13^7/_{12}$ ß.

*b)* Brot, sem svo eru á sig komin, að allir nefnararnir ganga upp í stærsta nefnaranum.

| | | | 20 |
|---|---|---|---|
| 5. | $^1/_2$ | — | 10 |
| | $^4/_5$ | — | 16 |
| | $^7/_{10}$ | — | 14 |
| | $^{17}/_{20}$ | — | 17 |
| verða | $2^{17}/_{20}$ | | 57. |

Stærsti nefnarinn verður samnefnari allra brotanna, og í honum er deilt með nefnara sjerhvers brots, og er teljarinn í hverju broti margfaldaður með kvótanum; t. a. m.: 20 : 2 = 10, 1 × 10 = 10, 20 : 5 = 4, 4 × 4 = 16, o. s. frv.; þegar búið er að breyta öllum teljurunum þannig, eru þeir lagðir saman og summunni deilt með samnefnaranum, sem hjer er stærsti nefnarinn.

6. Úr $^3/_{16}$, $^7/_8$, $^1/_2$, $^3/_4$ verða $2^5/_{16}$.
7. Ef saman eru lagðir $7^3/_8$, $3^2/_3$, $9^{13}/_{48}$, $3^5/_{24}$, $17^1/_4$ verða úr þeim $52^{29}/_{48}$.
8. Úr 3 ℔ 7 lóð. $3^3/_4$ kvint., 5 ℔ 12 lóð. $2^3/_8$ kvint., 7 ℔ 11 lóð. $2^{17}/_{24}$ kvint., 9 ℔ „ lóð. $1^{13}/_{64}$ kvint., 17 ℔ 24 lóð. $1^{13}/_{48}$ kvint., 11 lóð. $3^{127}/_{128}$ kvint., 123 ℔ 4 lóð. $^{23}/_{384}$ kvint. verða 166 ℔ 8 lóð $3^{23}/_{64}$ kvintin.

*c)* Brot með misstórum nefnurum, sem engan sameiginlegan mæli hafa.

| | | | 210 |
|---|---|---|---|
| 9. | $^1/_2$ | — | 105 |
| | $^2/_3$ | — | 140 |
| | $^4/_5$ | — | 168 |
| | $^6/_7$ | — | 180 |
| verða | $2^{173}/_{210}$ | | 593 |

Þar eð nefnarar brota þessara ekki geta gengið upp hver í öðrum, og engin tala gengur upp í tveimur þeirra, verður samnefnarinn pródúkt allra nefnaranna. Pródúkt nefnaranna fæst á þennan hátt: 2 × 3 = 6, 6 × 5 = 30, 30 × 7 = 210.

10. Úr $3\,^{7}/_{8}$, $5\,^{2}/_{3}$, $1\,^{3}/_{5}$, $2\,^{7}/_{11}$ ß verða $13\,^{1027}/_{1320}$ ß.

11. Úr 706 skpnd. 3 lpnd. $11\,^{7}/_{8}$ pnd., 113 skpnd. 17 lpnd. $^{3}/_{5}$ pnd., 129 skpnd. 14 lpnd. $1\,^{8}/_{9}$ pnd., 305 skpnd. „ lpnd. $13\,^{10}/_{13}$ pnd. verða 1254 skpnd. 15 lpnd. $12\,^{623}/_{4680}$ pnd.

*d)* Brot með blöndnum nefnurum.

Ef nokkrir af nefnurunum ganga hver upp í öðrum, er strykað yfir þá; síðan er að gætt, hvort nokkur hinna fyrstu frumtalna gangi upp í tveimur nefnurum eða fleiri; eru þá bæði kvótarnir og þeir nefnararnir, sem ekki varð deilt, skrifaðir upp aptur, og reynt, hvert nokkur þeirra gengur upp í öðrum, og er þá yfir þá strykað. Ef einhver tala gengur þá upp í tveimur, er enn deilt með henni, þangað til engin tala fæst lengur, sem gangi upp í tveimur. Svo er margfaldað saman deilarnir, kvótarnir og þær tölur, sem ekki hefur orðið deilt; próduktið verður samnefnari.

| | | | 840 |
|---|---|---|---|
| 12. | $^{1}/_{3}$ | — | 280 |
| | $^{5}/_{6}$ | — | 700 |
| | $^{3}/_{8}$ | — | 315 |
| | $^{4}/_{5}$ | — | 672 |
| | $^{5}/_{12}$ | — | 350 |
| | $^{3}/_{7}$ | — | 360 |
| | $^{4}/_{15}$ | — | 224 |
| | $3\,^{127}/_{280}$ | | 2901 |
| | | | 2520 |
| | | | 381 \| 3. |

$$3\quad \frac{381}{840}\Big|\frac{127}{280}$$

Samnefnarinn er þannig fundinn:

3—6—8—5—12—7—15.
2) 4—„— 6—7—15.
2) 2—„— 3—7—15.

$2 \times 2 \times 2 \times 7 \times 15 = 840.$

13. Úr $^{3}/_{8} + {}^{2}/_{3} + {}^{4}/_{5} + {}^{11}/_{12} + {}^{2}/_{9} + {}^{3}/_{5}$ verða $3\,^{209}/_{360}$.

14. Úr $3\,^{3}/_{8}$, $9\,^{7}/_{24}$, $3\,^{7}/_{32}$, $^{11}/_{20}$, $14\,^{1}/_{4}$ verða $30\,^{329}/_{480}$.

15. Úr 304 rdl. 3 mrk. $15\,^{1}/_{2}$ sk., 827 rdl. „ mrk. $3\,^{7}/_{8}$ sk., 1 rdl. 3 mrk. $^{5}/_{12}$ sk, 1 mrk. $3\,^{5}/_{16}$ sk., 14 rdl. 2 mrk. $14\,^{1}/_{15}$ sk, 834 rdl. 4 mrk. $11\,^{13}/_{48}$ sk., 19 rdl. 3 mrk. $7\,^{1}/_{20}$ sk., verða 2002 rdl. 1 mrk. $7\,^{59}/_{120}$ sk.

## 14. gr.

## Frádragning.

### *a)* Heil tala dregin frá blandinni tölu.

1. $312\frac{1}{3}$ / $209$ / $103\frac{1}{3}$ — Þegar einungis skal draga heila tölu frá, þá þarf ekki annað en færa brotið óbreytt ofan fyrir strykið, og draga heila frá heilum.

2. Drag 17 lóð frá $23\frac{3}{4}$ lóðum, það verða $6\frac{3}{4}$ lóð.

3. 5 mrk. $1\frac{7}{8}$ sk. ÷ 2 mrk. 11 sk. = 2 mrk. $6\frac{7}{8}$ sk.

4. Af peningum, sem upphaflega voru 342 rdl. 2 mrk. $7\frac{3}{19}$, hefur verið eytt 104 rdl. 3 mrk. 13 sk. Hversu mikið er þá eptir af þeim? — 237 rdl. 4 mrk. $10\frac{3}{19}$ sk.

### *b)* Brot dregið frá heilum.

5. $13$ / „ $\frac{3}{4}$ / $12\frac{1}{4}$ — $\frac{3}{4}$ verða ekki dregnir frá 13 heilum, heldur verður að lána 1 heilan af 13 og gjöra hann að broti, sem sje jafnstórt í teljara og nefnara, og er stærð þess miðuð við nefnarann í upphaflega brotinu: frá þessu nýja broti $\frac{4}{4}$ eru $\frac{3}{4}$ dregnir, afgangurinn er $\frac{1}{4}$, því 3 frá 4 (teljararnir dregnir hver frá öðrum) er 1, en 4, sem er samnefnari beggja brotanna, eru skrifaðir undir.

6. 2 mrk. 4 sk. ÷ $\frac{3}{5}$ sk. = 2 mrk. $3\frac{2}{5}$ sk.

7. 2 pnd ÷ $\frac{3}{8}$ lóðs = 1 pnd. $31\frac{5}{8}$ lóðs.

8. 8 vættir 7 fjórð. 13 merkur hafa ljetzt um $\frac{7}{16}$ merkur. Hvað er þá mikið eptir? — 8 vættir, 7 fjórð., $12\frac{9}{16}$ merkur.

Eins er farið að, þó blandin tala sje dregin frá heilum.

9. $19$ / $3\frac{5}{6}$ / $15\frac{1}{6}$ — Hjer er 1 heill tekinn til láns af 19, og gjörður að $\frac{6}{6}$ — $\frac{5}{6}$ = $\frac{1}{6}$, og svo eru 3 dregnir frá 18, sem eptir eru af 19.

10. Af 14 lóð. 3 kvint. er búið að selja 1 lóð $2\frac{1}{8}$ kvint. Hversu mikið er þá eptir? — 13 lóð, $\frac{7}{8}$ kvint.

11. 7 sk℔. 13 l℔. 12 pnd. ÷ 3 sk℔. 17 l℔. $1\frac{3}{7}$ pnd. = 3 sk℔, 16 l℔, $10\frac{4}{7}$ ℔.

12. Þegar búið er að greiða 3 mrk. $11\,^3/_{16}$ sk. af 1734rdl., hvað verður þá mikið eptir? — 1733 rdl. 2 mk. $4\,^{13}/_{16}$ sk.

*c)* Brot dregið frá broti.

Ef brotin eru ekki samnefnd, verður að leita að samnefnara fyrir þau, eins og sýnt er í samlagningu brota (*d*); en af því að ekki eru fleiri en 2 nefnarar í frádragningu, er optast nær auðvelt að finna samnefnarann í huganum.

Jafn stórir nefnarar.

$$\begin{array}{lll} & & \overbrace{\quad}^{13} \\ 13. & ^7/_{13} - & 7 \\ & \underline{^3/_{13}} - & 3 \\ & ^4/_{13} & \end{array}$$

14. $^7/_8 \div ^3/_8$, mismunurinn $^4/_8$, eða $^1/_2$.

15. $^{17}/_{32} \div ^9/_{32} = ^8/_{32} = ^1/_4$.

16. Hversu miklu stærri eru $^{47}/_{48}$ en $^{11}/_{48}$? — $^{36}/_{48} = ^3/_4$.

Öðrum nefnaranum verður deilt með hinum.

$$\begin{array}{lll} & & \overbrace{\quad}^{16} \\ 17. & ^3/_4 - & 12 \\ & \underline{^5/_{16}} - & 5 \\ & ^7/_{16} & \end{array}$$

18. $^{17}/_{20} \div ^3/_5 = ^1/_4$. 19. $^{41}/_{48} \div ^7/_{12} = ^{13}/_{48}$.

20. $^{47}/_{72} \div ^5/_{18} = ^3/_8$.

Sameiginlegur mælir fyrir báða nefnara.

$$\begin{array}{lll} & & \overbrace{\quad}^{48} \\ 21. & ^{13}/_{16} - & 39 \\ & \underline{^5/_{12}} - & 20 \\ & ^{19}/_{48} & \end{array} \qquad \begin{array}{r|l} & 16 - 12 \\ \hline 4) & 4 - \;\; 3 \end{array}$$

Samnefnarinn er $4 \times 4 \times 3 = 48$.

22. $^{13}/_{15} \div ^7/_{25} = ^{44}/_{75}$. 23. $^{17}/_{24} \div ^{11}/_{45} = ^{167}/_{360}$.

24. Hversu miklu minni eru $^5/_{72}$ en $^{19}/_{96}$? — $^{37}/_{288}$.

Nefnararnir eiga engan sameiginlegan mæli.

$$25.\quad \begin{array}{r} \tfrac{3}{5} \\ \tfrac{4}{7} \\ \hline \tfrac{1}{35} \end{array} \begin{array}{l} -\overbrace{21}^{35} \\ -\ 20 \\ \\ \end{array}$$

26. $\frac{4}{5} \div \frac{5}{12} = \frac{23}{60}$. 27. $\frac{1}{7} \div \frac{1}{9} = \frac{2}{63}$.
28. $\frac{7}{19} \div \frac{4}{15} = \frac{29}{285}$.

*d)* Blandin tala dregin frá blandinni tölu.

Minna brot dregið frá stærra broti.

Þessi aðferð er hin sama og hin næsta á undan, þar eð brot er dregið frá broti og heilir frá heilum.

$$29.\quad \begin{array}{r} 13\tfrac{3}{4} - \overbrace{3}^{4} \\ 7\tfrac{1}{2} - 2 \\ \hline 6\tfrac{1}{4} - \tfrac{1}{4} \end{array}$$

30. $327\frac{7}{9} \div 154\frac{3}{5} = 173\frac{8}{45}$.

31. 24pnd. $11\frac{5}{6}$lóðs $\div$ 13pnd. $7\frac{3}{8}$lóðs $=$ 11 pnd. $4\frac{11}{24}$lóðs.

32. Hversu mikið er eptir af 3543 rdl. 5 mrk. $2\frac{1}{2}$ sk., þegar búið er að farga af þeim 1004rdl. 2 mrk. $11\frac{1}{5}$ sk.? — 2539 rdl. 2 mrk. $7\frac{3}{10}$ sk.

Stærra brot dregið frá minna broti.

Hjer er lánaður 1 heill og er hann gjörður að broti, eins og í aðferðinni *b)* er gjört, nema hvað stærð brotsins er hjer miðuð við samnefnarann, en ekki nefnara brotsins í frádraganda.

$$33.\quad \begin{array}{r} \dot{5}\dot{0}3\tfrac{1}{8} \\ 7\tfrac{3}{4} \\ \hline 495\tfrac{3}{8} \end{array} \begin{array}{l} -\overbrace{1}^{8} \\ -\ 6 \\ \\ \end{array}$$

Þegar fara á að draga teljarann 6 frá 1, er 1 heill tekinn til láns af 503, og gjörður að $\frac{8}{8} + 1 = \frac{9}{8} \div \frac{6}{8} = \frac{3}{8}$, og er það brotið, sem út kemur.

34. $1504\frac{1}{12} \div 523\frac{7}{8} = 980\frac{5}{24}$.

35. Þegar búið er að selja 524 lestir, 2 tunnur $5\frac{4}{5}$ skeppu af 3042 lestum, „ tunnu, $7\frac{1}{3}$ skeppu, hvað er þá mikið eptir? — 2517 lestir, 20 tunnur, $1\frac{8}{15}$ skeppu.

36. Þegar búið er að farga 19 skpd. 3 lpd. $8^1/_4$ pd., 35 skpd. 13 lpd. $11^1/_5$ pd. og 47 skpd. 7 lpd. $3^1/_8$ pd. af 123 skpd. 18 lpd. $11^1/_2$ pd., hversu mikið er þá eptir? — 21 skpd. 14 lpd. $4^{35}/_{40}$pd.

## 15. gr.

## Margföldun.

### *a)* Brot margfaldað með heilli tölu.

Þegar margfalda skal brot með heilli tölu, skal margfalda teljara brotsins með heilu tölunni; ef þá kemur óeiginlegt brot, skal breyta því í blandna tölu (samkvæmt 12. gr.); en deila skal nefnara brotsins með heilu tölunni, ef verða má.

1. $^3/_{16} \times 5 = {}^{15}/_{16}$, eða þannig

$$\begin{array}{r} ^3/_{16} \\ 5 \\ \hline ^{15}/_{16} \end{array}$$

2. $^3/_{20} \times 15 = {}^{45}/_{20} = 2^5/_{20} = 2^1/_4$.

3. $^{17}/_{24} \times 3 = 2^1/_8$ Í þessu dæmi má hvort heldur vill margfalda teljarann (17) eða deila nefnaranum (24) með 3.

4. Úr $^{538}/_{2295}$ margfölduðum með 137 verða $31^{11}/_{17}$.

Ef margfalda skal blandna tölu með heilli, er brotið margfaldað fyrst og síðan heila talan.

5. $312^3/_5 \times 5 = 1563$.

$$\begin{array}{r} 312^3/_5 \\ 5 \\ \hline 3 \\ 1560 \\ \hline 1563 \end{array}$$

Hjer er svo til orða tekið: 5 (margfaldarinn) $\times$ 3 (teljara brotsins) = 15: 5 (nefnara brotsins) = 3 (heilir, sem eru settir fyrir neðan strykið), svo eru hinir heilu margfaldaðir og 3 lagðir við, sem fengust úr brotinu.

6. Úr 50 rdl. 5 mrk. $3^1/_3$ sk. $\times$ 15 verða 763 rdl. „ mrk. „ sk.

*b)* Heil tala margfölduð með broti.

Heilu töluna skal margfalda með teljara brotsins, og deila því pródúkti með nefnaranum.

7. 3495 margfaldaðir með $^2/_3$.

$$\begin{array}{r} 3495 \\ \underline{2} \\ 3)\underline{6990} \\ 2330 \end{array}$$

8. 50 rdl. 2 ℳ 4 β $\times$ $^{13}/_{16}$ $=$ 40 rdl. 5 ℳ $9^1/_4$ β.

Miklu hægra væri að taka brotið í parta (dreifa brotinu), og deila með nefnurum nýju brotanna þannig:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 50 rdl. | 2 ℳ | 4 β | $\times$ | $^{13}/_{16}$ |
| 25 — | 1 - | 2 - | | $(8^1/_2$ |
| 12 — | 3 - | 9 - | | $(4^1/_2$ |
| 3 — | „ - | $14^1/_4$ - | | $(1^1/_4$ |
| 40 — | 5 - | $9^1/_4$ - | | |

Í staðinn fyrir að margfalda 50 rdl. 2 mrk. 4 sk. með 13 (teljara brotsins) og deila því pródúkti með 16 (nefnara brotsins), eru hjer fyrst teknir $^8/_{16}$ af brotinu, sem er $=$ $^1/_2$, þá $^4/_{16}$, helmingur við $^8/_{16}$, og því $=$ $^1/_2$ af þeim, og síðast $^1/_{16}$, sem er $=$ $^1/_4$ af $^4/_{16}$. Með nefnurum þessara nýju brota (2, 2, 4) er margfaldanda deilt (því að teljarar nýju brotanna eru allir 1, svo ekki er til neins að margfalda með þeim). Með 2 (nefnara fyrsta nýmyndaða brotsins) er deilt í 50 rdl. 2 mrk. 4 sk., og fást þá út 25 rdl. 1 mrk. 2 sk; þessari tölu er aptur deilt með 2 (nefnara annars nýmyndaða brotsins), og fást þá út 12 rdl. 3 mrk. 9 sk.; loksins er þeim aptur deilt með 4 (nefnara hins þriðja nýmyndaða brots), og koma þá 3 rdl. „ mrk. $14^1/_4$ sk. Síðast eru allar tölurnar (kvótarnir) lagðar saman, sem út hafa komið í deilingunni, og sú summa er það, sem út á að koma.

*c)* Heil tala margfölduð með blandinni tölu.

Ef bæði heila talan og brotið er lítið, er hægast að gjöra blöndnu töluna að óeiginlegu broti, og er þá að öllu farið, eins og sagt er fyrir við *b)* 7.; annars er margfaldað með heilu tölunni í margfaldara, en brotið tekið í part og farið að eins og við *b)* 8.

```
9.   504 × 3⅓
      10    ───
   ─────    10
  3)5040    ──
   ─────     3
    1680
```

10. Úr 3 ℔ 14 lóðum margfölduðum með $7\frac{1}{2}$ verða 25 ℔ 25 lóð.

```
11.  4305 × 13 11/15
       13    ───────
    ─────    (5 1/3
    55965    (5 1/1
     1435    (1 1/5
     1435
      287
    ─────
    59122
```

12. Úr 406 rdl. 3 ℳ 6 β × $16\frac{5}{48}$ verða 6547 rdl. 2 ℳ $1\frac{5}{8}$ β.

*d)* Brot margfaldað með broti.

Teljararnir eru margfaldaðir saman, og kemur þá fram teljari pródúktsins; allt eins eru nefnarar brotanna margfaldaðir, og verður úr þeim nefnari pródúktsins.

13. $\frac{3}{8} \times \frac{4}{6} = \frac{12}{48} = \frac{1}{4}$, eða þannig:

$$\overset{1}{\underset{2}{\frac{3}{8}}} \times \overset{1}{\underset{2}{\frac{4}{6}}} = \frac{1}{4}.$$

Í síðara dæminu er sama aðferð að öllu og í hinu fyrra, nema hvað báðir gjörendurnir eru styttir þar strax á víxl (teljari margfaldanda og nefnari margfaldara með sömu tölu, og eins aptur teljari margfaldara og nefnari margfaldanda með sömu tölu báðir), í staðinn fyrir að stytta pródúktið á endanum, eins og í fyrri aðferðinni.

14. Úr $\frac{3}{13}$ margfölduðum með $\frac{17}{24}$ verða $\frac{17}{104}$.

*e)* Blandin tala margfölduð með broti.

Brotið í margfaldara er tekið í part, og með nefnur-

um partanna (nýmynduðu brotanna) er öllum margfaldanda deilt.

15. $503\frac{1}{5} \times 5/12$

$167\,^{11}/_{15}$ (4⅓)

$41\,^{14}/_{15}$ (1¼)

$209\,^{10}/_{15} = 209\,^{2}/_{3}$

Þegar búið er að deila heilu tölunni í margfaldanda með 3 (sbr. b) 8.) og fá út 167 heila, ganga af 2 heilir, og eru þeir gjörðir að óeiginlegu broti (sbr. 12. gr.) með frumbrotinu í margfaldanda, og lítur það þannig út $^{11}/_{5}$. Nú á eins að deila þessu broti, eins og heilu tölunni, með 3; en brot deilist annaðhvort með því að deila teljaranum, eða, ef talan gengur ekki upp í honum, með því að margfalda nefnarann (sbr. 16. gr. a), og það er hjer gjört: $^{11}/_{5} : 3 = {}^{11}/_{15}$. Eins er er afgangurinn af 167, þegar búið er að fá út 41 heilan, gjörður að óeiginlegu broti og því deilt með 4.

16. Úr 7 l℔ $4\,^{2}/_{3}$ ℔ $\times\ ^{13}/_{25}$ verða 3 l℔ $\overline{1}2\,^{2}/_{3}$ ℔.

*f)* Blandin tala margfölduð með blandinni tölu.

Ef heilu tölurnar og brotin eru lítil bæði í margfaldanda og margfaldara, má gjöra þá báða að óeiginlegum brotum (sbr. *c)* 9.). En ef tölurnar eru stórar, er hægra að margfalda allan margfaldanda með heilu tölunni í margfaldara, og taka brotið, sem þar er, í part, og fara með, sem fyr segir (*c)* 11. og *e)* 15.).

17. $2\,^{1}/_{2} \times 3\,^{5}/_{6} = {}^{5}/_{2} \times {}^{23}/_{6} = {}^{115}/_{12} = 9\,^{7}/_{12}$.

18. $324\,^{1}/_{6} \times 12\,^{3}/_{5}$

12 (1⅕

2 (2 sinnum.

3888 6

$64\,^{5}/_{6}$ – 5

$129\,^{4}/_{6}$ — 4

$4084\,^{3}/_{6} = 4084\,^{1}/_{2}$

19. Úr $5047\,^{1}/_{5} \times 23\,^{5}/_{12}$ verða $118188\,^{3}/_{5}$.

20. Úr 1 *ctn.* 17 ℔ $27\,^{3}/_{7}$ lóðs $\times\ 33\,^{17}/_{20}$ verða 39 *ctn.* 89 ℔ $14\,^{6}/_{7}$ lóðs.

## 16. gr.

## Deiling.

### *a)* Broti deilt með heilli tölu.

Deil teljara brotsins með heilu tölunni, eða margfalda nefnara þess með henni; síðari aðferðinni verður ávallt við komið, en ekki hinni fyrri, nema þar sem talan gengur upp í teljaranum.

1. $^3/_8$ deilt með 5 $=$ $^3/_{40}$

$^3/_8$
5
$^3/_{40}$

Hjer verður ekki 3 (teljaranum) deilt með 5 og því verður að margfalda 8 (nefnarann) með heilu tölunni, en láta teljarann óhreifðan, koma því $^3/_{40}$.

2. $^9/_{16} : 3 = ^3/_{16}$, eða þannig: $3)^9/_{16} = ^3/_{16}$ Hjer er heilu tölunni, 3, deilt í $9 = 3$, en nefnarinn látinn óbreyttur.

3. Þegar $^{16}/_{25}$ er deilt með 8, hversu mikill verður 8. hlutinn? — $^2/_{25}$.

4. Ef $^{384}/_{1537}$ er skipt í 16 deildir, hvað verður þá 16. deildin stór? — $^{24}/_{1537}$.

### *b)* Blandinni tölu deilt með heilli.

Ef heila talan (í deili) gengur upp bæði í heilu tölunni og brotinu í deilanda, skal deila hvoru sjer í lagi; aptur á móti ef nokkuð verður afgangs af heilu tölunni í deilanda, verður það blandin tala, og skal þá breyta þessari blöndnu tölu í óeiginlegt brot, og deila því, eptir því sem fyrir er sagt við aðferðina *a)*.

5. $305^2/_3$ deilt með 7 verða $43^2/_3$.

$7\ )\ 305^2/_3$
$43^2/_3$

Hjer er svo að orði komizt: 7 í 305 (heilu töluna í deilanda) $= 43$, og 4 afgangs $+ ^2/_3 = 4^2/_3$, sem gjörðir eru að óeiginlegu broti $^{14}/_3$, $^{14}/_3 : 7 = ^2/_3$.

6. Hversu stór verður 7. hlutinn af 9 ☿ 17 aurum $5\frac{3}{8}$ álnar? — 1 ☿ 8 aur. $1\frac{5}{8}$ álnar.
7. Hversu mikill verður 13. hlutinn af 3 rdl. 5 mrk. $12\frac{1}{2}$ sk? — 1 mrk. $13\frac{7}{26}$ sk.

*c)* Heilli tölu deilt með broti.

Deilandann skal margfalda með nefnara brotsins, og deila pródúktinu með teljara brotsins; því að það er allt hið sama, og höfð væru sætaskipti á teljara og nefnara brotsins og svo margfaldað, og má einnig við hafa þá aðferð (sbr. 15. gr. *b)* 7. og *c)* 9.).

8. $234 : \frac{2}{3}$

$$\begin{array}{r} 3 \\ \hline 2)\,702 \\ \hline 351 \end{array}$$

eða þannig:

$$\frac{234 : \frac{2}{3}}{234 \times \frac{3}{2}}$$

$$\begin{array}{r} 3 \\ \hline 2)\,702 \\ \hline 351 \end{array}$$

Það er einkennilegt, að þegar heilli tölu er deilt með eiginlegu broti, þá vex hún; en aptur á móti minnkar hún, ef hún er margfölduð með eiginlegu broti, og er það auðskilið, af því að þegar tölunni er deilt, er sú talan stærri, sem hún (heila talan) er margfölduð með (nefnari brotsins), en hin, sem deilt er með (teljari brotsins), en gagnstætt er því varið í margföldun.

9. $758 : \frac{3}{16} = 4042\frac{2}{3}$.
10. Hversu stór verður kvótinn, þegar 17 skp, 5 lp. 11 pd. er deilt með $\frac{13}{24}$? — 31 skp. 18 lp. $3\frac{1}{13}$ pd.

*d)* Heilli tölu deilt með blandinni tölu.

Deilinum skal breyta í óeiginlegt brot, hafa síðan sætaskipti á teljara þess og nefnara, með nefnara hins óeiginlega brots (sem, eptir það að sætaskiptin eru höfð, verður að teljara) skal margfalda allan deilanda, og deila því pródúkti með teljara hins óeiginlega brots (sem orðinn er að nefnara), (sbr. *c*).

11. $504 : 3\frac{1}{3}$ — Hjer eru $3\frac{1}{3} = \frac{10}{3}$, þegar höfð eru sætaskipti á teljara og nefnara í þessu broti, verður það þannig $\frac{3}{10}$, er svo margfaldað með 3, en deilt með 10.

$$\begin{array}{l} 504 : 3\frac{1}{3} \\ \underline{\quad 3} \qquad \frac{10}{3} = \frac{3}{10} \\ 10)\,\underline{1512} \\ \quad 151\frac{2}{10} = 151\frac{1}{5}. \end{array}$$

12. Ef 1 uxahöfði, 1 ankeri, 15 pottum er deilt með $3\frac{1}{7}$, verða í kvótanum 2 anker, 13 pottar og $1\frac{7}{12}$ pela.

Einnig má taka brotið í part í deili, þegar búið er að hafa sætaskipti á teljara og nefnara, eins og fyr er sagt við aðferðina *b)* í margfölduninni, og er þá fylgt reglunum, sem þar eru við 8. dæmið.

$$\begin{array}{lll} 13.\ \ 1624 : & 3\frac{1}{5} & \\ \quad\ 406 & \frac{16}{5} = \frac{5}{16} & \\ \quad\ 101\frac{2}{4} & (4\frac{1}{4} & \\ \quad\ 507\frac{2}{4} = 507\frac{1}{2}. & (1\frac{1}{4} & \end{array}$$

14. Hvað mikið verður í kvótanum, þegar 314 rdl. „ mrk. 12 sk. er deilt með $9\frac{1}{3}$? — 33 rdl. 3 mrk. 15 sk.

*e)* Broti deilt með broti.

Sætaskipti skal hafa á teljara og nefnara í deili, og fylgja svo margföldunarreglunum í 15. gr. *d)*.

$$\begin{array}{ll} 15.\quad \frac{3}{5} & : \frac{3}{7} \\ \quad \times \frac{7}{3} & \quad \frac{7}{3} \\ \quad \frac{21}{15} = 1\frac{6}{15} = 1\frac{2}{5}. & \end{array}$$

Eða: $\frac{3}{5} : \frac{3}{7} = \frac{3}{5} \times \frac{7}{3} = \frac{21}{15} = 1\frac{6}{15} = 1\frac{2}{5}$.

16. Ef $\frac{13}{18}$ er deilt með $\frac{2}{3}$, verða í kvótanum $\frac{20}{33}$.

Eins má deila broti með blandinni tölu, með því að breyta blöndnu tölunni í óeiginlegt brot, og hafa síðan sætaskipti.

17. $\frac{5}{7} : 2\frac{1}{2} = \frac{5}{7} : \frac{5}{2} = \frac{5}{7} \times \frac{2}{5} = \frac{10}{35} = \frac{2}{7}$.

Eða: $\frac{5}{7} : 2\frac{1}{2}$

$2 \qquad \frac{5}{2} = \frac{2}{5}$

$5)\frac{10}{7}$

$\frac{2}{7}$

18. Ef $\frac{5}{16}$ er deilt með $1\frac{2}{3}$, verða $\frac{3}{16}$ í kvótanum.

*f)* Blandinni tölu deilt með blandinni tölu.

Blöndnu tölunni í deili skal breyta í óeiginlegt brot, hafa svo sætaskipti á teljara og nefnara, og margfalda síðan og deila eins og áður er sagt; en hægust verður margföldunin og deilingin, með því að taka brotið í deili í part, þegar búið er að hafa sætaskiptin.

19. $723\frac{1}{5} : 5\frac{1}{3}$

$90\frac{2}{5} \qquad \frac{16}{3} = \frac{3}{16}$

$45\frac{1}{5} \qquad (2\frac{1}{8}$

$135\frac{3}{5} \qquad (1\frac{1}{2}$

20. Hversu mikill yrði kvótinn, ef 10 pnd. 30 lóð. $3\frac{1}{3}$ kvint. væri skipt með $3\frac{5}{17}$? — 3 pnd. 10 lóð $2\frac{1}{16}$ kvint.

---

## 4. Kapituli.

### Um þríliðu.

### 17. gr.

### Eðli þríliðu.

Með þríliðu getur maður fundið stærð þeirra hluta, sem vaxa eptir tiltölu, eins og einhverjir aðrir hlutir, sem eru þeim eins og samferða í vexti, t. a. m. *vörur* og *dýrleiki* þeirra, sem vex, eptir því sem varan vex að vigt eða máli.

Í þríliðu eru 3 tölur gefnar, og eru þær látnar standa hver út undan annari, og þverstryk sett í milli þeirra. 1. eða fremsta talan heitir *forliður*, og er hann sömu tegundar og 3. talan eða *apturliður;* 2. talan, eða *miðliður*, er annarar tegundar, en forliður og apturliður, og sömu tegundar og hin fjórða og ókunna tala, sem að er leitað, og finna á af 3 gefnu tölunum. Forliður og miðliður tiltaka beinlínis verð eins hlutar, þyngd hans, mál eða fjölda, o. s. frv., en apturlið fylgir allajafna spurning, t. a. m.: 3 álnir kosta 5 rdl., hvað kosta 6 áln.?

Aðferðin í þríliðu er sú, að miðliður og apturliður eru margfaldaðir saman, og pródúktinu er deilt með forlið. Kvótinn, sem þá kemur út, er fjórða talan, sem að er leitað, og er hún, eins og áður er sagt, samkynja miðlið. Þegar liðirnir eru ekki margbrotnir (ekki nema 1 tegund í hverjum) þarf ekki við þríliðu nema 4 reikningstegundir eins konar talna, t. a. m.:

2 álnir kosta 4 rdl., hvað kosta 24 áln.? — 48 rdl.

```
        24 (áln., apturliður).
         4 (rdl., miðliður).
     ----------
     2) 96 rdl.   (48 rdl.
        8
       ----
        16
        16
       ----
         0
```

## 18. gr.

### Reglur í þríliðu.

Þó að það nægi opt í þríliðu að kunna 4 reikningstegundir eins konar talna, er hitt þó miklu optar, að maður þarf að grípa til reiknings margs konar talna, því að í hinum sama lið eru tíðum stærri og minni tegundir,

t. a. m.: 1 tunna kostar 2 rdl. 4 mrk. 15 sk., hvað kosta þá 23 tunnur? Skal hjer því geta hinna helztu reglna fyrir þríliðu-reikningi, og ættu viðvaningar að nema þær.

1. Forliður og apturliður verða að vera samkynja; ef þeir eru það ekki, verður að gjöra þá samkynja.
2. Sú tegund, sem er í miðlið, verður og í 4. lið.
3. Miðlið og apturlið skal margfalda saman, og deila pródúktinu með forlið, ef hann er stærri en 1, ella stoðar ekki að deila með honum, og verður þá pródúktið óumbreytt 4. liður.
4. Forlið og apturlið má margfalda, eða deila, með hinni sömu tölu, án þess að það valdi nokkurri villu eða ruglingi í reikningnum, og allt eins forlið og miðlið, en alls ekki miðlið og apturlið.

Auk þessara aðalreglna má enn geta nokkurra, því að þær verða optast nær auðveldar og hægar til að taka, enda ríður á að fylgja þeim nákvæmlega, þó að alvanir reikningsmenn geti reiknað sum dæmi án þeirra.

5. Forlið allan má gjöra að minnsta kyni, sem hann sjálfur hefur, en alls ekki að minna kyni.
6. Þegar búið er að gjöra forlið að minnsta kyni, og ef stærra kyn er þá í apturlið, en forlið, skal og gjöra apturlið (það sem èr stærra kyns í honum en forlið) að sama kyni, og forliður er orðinn að; en það, sem minna er í apturlið en minnsta kyn forliðs, er tekið í part og miðað við 1 af minnsta kyni forliðs, með þessum pörtum (nefnurum brotanna) apturliðs er deilt í annan miðlið (sbr. 15. gr., 8. dæmi).
7. Ef aðalkyn í apturlið verður minna, en miðliður er, þá er reiknað niður undan miðlið; það er að skilja: allan miðlið skal margfalda með hæsta kyni apturliðs, og bæta við pródúktið kvótum þeim, sem koma, þegar mið-

lið er deilt með pörtunum (nefnurum brotanna) í apturlið (sbr. 15. gr., 8., 11., 15. og 18. dæmi).

8. Ef aðalkyn miðliðs verður minna en aðalkyn apturliðs, þá skal reikna niður undan apturlið; þá skal og taka hið minna (hin minni) kyn miðliðs í part, og miða við einn af aðalkyni miðliðs. Með aðalkyni miðliðs skal margfalda allan apturlið (þ. e. það af apturlið, sem samkynja er orðið forlið), og er það pródúkt samkynja aðalkyni forliðs. En áður en farið er að deila apturlið með pörtunum í miðlið, verður að ímynda sjer apturlið margfaldaðan með 1 af aðalkyni miðliðs, og þeirri tölu (*þ. e. apturlið, orðinn samkynja forlið og margfaldaðan með 1 af aðalkyni miðliðs*) skal deila með pörtunum í miðlið; hjer bætast enn við kvótarnir af pörtunum í apturlið, ef þeir eru nokkrir til, sem koma, þegar öllum miðlið er deilt með pörtunum í apturlið. Síðan er allt lagt saman.

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| 1. | 1 ℔ — | 11 rdl. | 2 ℔ | „ sk — | 4 ℔ | 3 lóð 2 kvint. |
| | | | | 4 - | | ($2\,^1/_{16}$ ($2\,^1/_2$ |
| | | 45 rdl. | 2 ℔ | „ - | | ($1\,^1/_2$ |
| | | „ — | 4 - | 4 - | | |
| | | „ — | 2 - | 2 - | | |
| | | „ — | 1 - | 1 - | | |
| | | 46 — | 3 - | 7 - | | |

Þetta dæmi er reiknað niður undan miðlið (eptir 7. reglu), af því að aðalkyn apturliðs (4 pd.) er minna, en aðalkyn miðliðs (11 rdl.). Miðliður er því fyrst margfaldaður með 4 (þ. e. 4 pd.) úr apturlið (3. regl.), en lóðin og kvintinin í apturlið, sem eru minna kyn en forliður, eru tekin í part, og lóðin miðuð við 1 pd. í forlið (6. regl.); þess vegna eru 2 lóð af 3 í apturlið = $^1/_{16}$ úr 1 pd., aptur eru 2 kvint. miðuð við 1 lóð, síðari partinn af 3 lóð., og kölluð $^1/_2$ lóðs. Með þessum pörtum í apturlið er öllum miðlið deilt: fyrst 11 rdl. með 16 (nefnaranum í $^1/_{16}$) og

fást þá út 4 mrk. 4 sk., því næst er 4 mrk. 4 sk. deilt aptur með 2 (nefnaranum í $^1/_2$), þá fást 2 mrk. 2 sk., þá er 2 mörk. 2 sk. enn deilt með 2 (nefnara síðasta brotsins) og kemur þá 1 mrk. 1 sk. Loksins eru allir kvótarnir lagðir saman við 45 rdl. 2 mrk.. sem komu, þegar allur miðliður var margfaldaður með 4 (7. regl.), Með forlið þarf ekki að deila, af því að hann er 1 eining (sbr. 3. regl.).

2. 2 ℔ 3 lóð - 8 rdl. 2 ℳ 4 sk - 3 *ctn.* 15 ℔ 1 lóð 3 kvint.
32 (⅓ (⅛ 100 (2½
67 315 (1½
32
630
945
1 lóð
10081 lóð
8
80648 rdl.
3360 — 2 ℳ
420 — „ - 4 sk
4 — 1 - 2 -
2 — „ - 9 -
67)84434 rdl. 3 ℳ 15 β
1260 rdl. 1 ℳ 5 β

Í þessu dæmi eru 2 pd. 3 lóð í forlið gjörð að lóðum (5. regl.); því næst eru 3 ctn. 15 pd. 1 lóð í apturlið gjörð að lóðum, og 3 kvintin tekin í part (6. regl.); þar eð apturliður hefur stærra aðalkyn (10081 lóð) en miðliður (8 rdl.), þá er reiknað niður undað apturlið (8. regl.); þá eru 2 mrk. og 4 sk. í miðlið teknir í part, mörkin miðuð við 1 rdl., en skildingarnir við 2 mrk. Þegar búið er að gjöra aðalkyn apturliðs samkynja forlið, er aðalkyni apturliðs (10081 lóð) margfaldað með aðalkyni miðliðs, 8 rdl. og verður það pródúkt 80648 rdl. Síðan er 10081 margföldnðum með 1 rdl. (aðalkyn apturliðs $\times$ 1 af aðalkyni miðliðs) deilt með pörtunum í miðlið, við það er enn bætt kvótunum, sem koma, þegar öllum miðlið er deilt með pörtunum í aptur-

lið (8. regl.). Þegar búið er að leggja allt saman, er deilt með 67, (forlið, 3. regl.).

## 19. gr.
## Part-tekning í þríliðu.

Eins og áður var getið (18. gr.), kemur það optast fyrir í þríliðu, að hinn sami liður hefur bæði stærra og minna kyn, og má þá álíta hið minna kyn sem part af einingu hins stærra kyns. Af þessu er sú aðferð komin, er menn kalla að *taka í part* og er það bæði gjört í brotum (sbr. 15. og 16. gr.) og þríliðu (18. gr.). Það er aðalregla í partteknrngu að teljarinn sje 1. Ef taka skal t. a. m. nokkur mörk í part og miðað er við ríkisdali, þá er 1 mrk. = $\frac{1}{6}$ rdls; 2 mrk. = $\frac{1}{3}$; 3 mrk. = $\frac{1}{2}$; en 4 mrk. og 5 mrk. er þannig dreift:

| 4 mrk. | 5 mrk. |
|---|---|
| (3$\frac{1}{2}$*) miðað við 1 rdl. | (3$\frac{1}{2}$ miðað við 1 rdl. |
| (1$\frac{1}{3}$ miðað við 3 mrk. | (1$\frac{1}{3}$ miðað við 3 mrk. |
| | (1$\frac{1}{1}$ eða einu sinni sama. |

Ef taka skal skildinga í part, og miðað er við 1 mrk., þá er 1 sk. = $\frac{1}{16}$, 2 sk. = $\frac{1}{8}$, 4 sk. = $\frac{1}{4}$, 8 sk. = $\frac{1}{2}$, en hinir skildingarnir eru þannig teknir.

| 15β, | 14β, | 13β, | 12β, | 11β, | 10β, | 9β, | 7β, | 6β, | 5β, | 3β. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| (8$\frac{1}{2}$ | (8$\frac{1}{2}$ | (8$\frac{1}{2}$ | (8$\frac{1}{2}$ | (8$\frac{1}{2}$ | (8$\frac{1}{2}$ | (8$\frac{1}{2}$ | (4$\frac{1}{4}$ | (4$\frac{1}{4}$ | (4$\frac{1}{4}$ | (2$\frac{1}{8}$ |
| (4$\frac{1}{2}$ | (4$\frac{1}{2}$ | (4$\frac{1}{2}$ | (4$\frac{1}{2}$ | (2$\frac{1}{4}$ | (2$\frac{1}{4}$ | (1$\frac{1}{8}$ | (2$\frac{1}{2}$ | (2$\frac{1}{2}$ | (1$\frac{1}{4}$ | (1$\frac{1}{2}$ |
| (2$\frac{1}{2}$ | (2$\frac{1}{2}$ | (1$\frac{1}{4}$ | | (1$\frac{1}{2}$ | | | (1$\frac{1}{2}$ | | | |
| (1$\frac{1}{2}$ | | | | | | | | | | |

Það er önnur aðalregla í part-tekningu, að heildin, sem tekin var í part, komi aptur fram, þegar allir partarnir eru lagðir saman; optast nær er og svo tekið í

*) Hjer merkir 3$\frac{1}{2}$ ekki blandna tölu, heldur að 3 mrk., sem fyrst eru tekin af 4 mrk., sjeu sama sem hálfur ríksisdalur.

part, að sjerhver partur er miðaður við hinn næsta á undan. En ef þess er ekki gætt, verður að muna til að haga sjer eptir því á síðan, þegar deila skal með pörtunum.

Eins má taka skildinga í part og miða við 2 mrk.; eru þá 8 sk. = $\frac{1}{4}$, 4 sk. = $\frac{1}{8}$, 2 sk. = $\frac{1}{16}$, 1 sk. = $\frac{1}{32}$. En svo að deila megi í huganum, kemur opt að góðu haldi að taka aðra tölu til hjálpar, og má þá taka 1 sk. þannig í part og miða við 2 mrk.

1 sk.
($4\frac{1}{8}$
($1\frac{1}{4}$

Hjer eru 4 hjálpartalan, og er yfir hana strykað til merkis um, að hún sje ekki partur af 1 sk., eins er strykað yfir kvótann, sem kemur, þegar deilt er með einhverri hjálpartölu, nota skal hann þó, til að deila honum aptur með næsta parti á eptir, en ekki má leggja hann saman með öðrum kvótum, eins og þetta dæmi sýnir:

1 al. — 3 rdl. 2 mrk. 1 sk. — 519 álnir.?
($\frac{1}{3}$ ($4\frac{1}{8}$ 3
($1\frac{1}{4}$ 1557
173
21 — 3 mrk. 12 sk.
5 — 2 — 7 -
1735 rdl. 2 mrk. 7 sk.

Ef skildinga skal taka í part og miða við 3 mrk., þá eru 12 sk. = $\frac{1}{4}$, 8 sk. = $\frac{1}{6}$, 6 sk. = $\frac{1}{8}$, 4 sk. = $\frac{1}{12}$, 3 sk. = $\frac{1}{16}$; en 2 sk. og 1 sk. eru þannig teknir:

| 2 sk. | 1 sk. |
|---|---|
| ($8\frac{1}{6}$ | ($8\frac{1}{6}$ |
| ($2\frac{1}{4}$ | ($1\frac{1}{8}$ |

Skildinga má taka þannig í part, ef miðað er við 1 rdl.: 12 sk. = $\frac{1}{8}$, 8 sk. = $\frac{1}{12}$, 6 sk. = $\frac{1}{16}$, en við 4 sk., 3 sk., 2 sk. og 1 sk. verður að taka hjálpartölu þannig:

| 4 sk., | 3 sk., | 2 sk., | 1 sk., |
|---|---|---|---|
| 1 # ($\frac{1}{4}$ | 12 sk. ($\frac{1}{4}$ | 12 sk., ($\frac{1}{6}$ | 8 sk. ($\frac{1}{8}$ |
| ($\frac{1}{6}$ | ($\frac{1}{8}$ | ($\frac{1}{8}$ | ($\frac{1}{12}$ |

Lýsipund eru þannig tekin í part og miðuð við 1 skpd.: 10 lpd $=$ $\frac{1}{2}$ skpd. 5 lpd. $=$ $\frac{1}{4}$, 4 lpd. $=$ $\frac{1}{5}$, 2 lpd. $=$ $\frac{1}{10}$, 1 lpd. $=$ $\frac{1}{20}$. Hin önnur lpd. verður að taka þannig:

| 19 lpd., | 18 lpd., | 17 lpd., | 16 lpd., | 15 lpd., | 14 lpd., | 13 lpd., | 12 lpd. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| ($10\frac{1}{2}$ | ($10\frac{1}{2}$ | ($10\frac{1}{2}$ | ($10\frac{1}{2}$ | ($10\frac{1}{2}$ | ($10\frac{1}{2}$ | ($10\frac{1}{2}$ | ($10\frac{1}{2}$ |
| ( $5\frac{1}{2}$ | ( $5\frac{1}{2}$ | ( $5\frac{1}{2}$ | ( $5\frac{1}{2}$ | ( $5\frac{1}{2}$ | ( $2\frac{1}{5}$ | ( $2\frac{1}{5}$ | ( $2\frac{1}{5}$ |
| ( $1\frac{1}{5}$ | ( $1\frac{1}{5}$ | ( $1\frac{1}{5}$ | ( $1\frac{1}{5}$ | | ( $2\frac{1}{1}$ | ( $1\frac{1}{2}$ | |
| ( 3 sinn. | ( 2 sinn. | ( 1 sinn. | | | | | |

| 11 lpd., | 9 lpd., | 8 lpd., | 7 lpd., | 6 lpd., | 3 lpd., |
|---|---|---|---|---|---|
| ($10\frac{1}{2}$ | ($4\frac{1}{5}$ | ($4\frac{1}{5}$ | ($4\frac{1}{5}$ | ($4\frac{1}{5}$ | ($2\frac{1}{10}$ |
| ( $1\frac{1}{10}$ | ($4\frac{1}{1}$ | ($2\frac{1}{2}$ | ($2\frac{1}{2}$ | ($2\frac{1}{2}$ | ($1\frac{1}{2}$ |
| | ($1\frac{1}{4}$ | ($2\frac{1}{1}$ | ($1\frac{1}{2}$ | | |

Af því að 1 lpd. er sama sem 16 pnd., eru pund tekin eins í part og miðuð við lýsipund, eins og skildingar eru teknir í part, þegar miðað er við 1 mark.

Þegar taka þarf lóð í part og miða þau við 1 pnd., er þannig að farið: 16 lóð $=$ $\frac{1}{2}$ pnd., 8 lóð $=$ $\frac{1}{4}$, 4 lóð $=$ $\frac{1}{8}$. Þegar taka skal 1 lóð í part og miða við 1 pnd., er betra að taka annaðhvort 4 eða 8 til hjálpar fyrst, þar eð 1 lóð er sama sem $\frac{1}{32}$, en 32 eru óhandhægir að deila með.

Þannig er að farið, ef taka þarf í part aðrar margs konar tölur. Eins má taka brot, en þó er það aðgætandi, að teljari brotsins er allajafna tekinn í part og miðaður við nefnara sinn (sbr. 15. gr. 8. *d.).*

